# Rimur
af
# Ulfari Sterka,
kvednar
af
## Þorlake Gudbrands syne
fordum Syslumañe i nyrdra parte
Isafiardar Sýslu
og
## Arna Bødvars syne.

Utgefnar
epter
## Sira Eiolfs
á Vøllum eigiñ handar rite.

---

Prentadar í Hrappsey
í því nýa Konúngl. privilegerada Bók-
þryckerie af E. G. Hoff 1775.

# Encomium.

Vel þott hafe vandad feingenn vins
Odreira Gudmundur
samt er vafe á því eingenn, afbragd
meira er Þorlákur.
Hann hefur vanid Sudra súder um
sónar hil med fagurt skraut,
og voder þanid vel, enn prúdi, víst þar
til, i sundur bravt.
Hver mun skutinn hier so renna Hleid-
olfs sneckiu brotna vid,
fremra hlut ei frá meige kienna? fæst
þad ecke af nockrum sinid.

S**** S**** S**



Fyrrsta
# Riima.

1. Fuglar Sigtyrs fliugid enn, fram̃ af Herjans hellu; Skálir Odins skulud senn, skeinkia fólki snjollu.

2. Þó ei sieu um virktir Vol, Vals á dýrum Konnum; Þori eg bjoda Odins ol, ollum múga monnum.

3. Mier er á hendi merkileg, minning Afreks Verka; Og sannliga komin á Sagnar Veg, sagann af Ulfar Sterka.

4. Þvi hefur Hár á hornim renni hreinum dverga geimi, og mier lík. Soguna sendt, sunnan lángt úr heimi.

5. Ydur þvi bera eitt skal fyrrst, Odins staup ad Mundum; Smackid þier

fólk sem fyrr var þyrst, flód úr Qvásis undum.

6. O þker Gudir i Asa Holl, Ol styrendur kera, látid spretta lioda Voll, lika ávoxt bera.

7. Tyrs eg heite hurdir á, Hárs ad rádum merkum, medann eg inni allt í frá Ulfars hreysti-verkum.

8. Mitt giorir enda Mañsaungs tal, Mædi Vinda Hyriar, Hlustid til, eg herma skal, hvernig Soguna byriar.

9. Cyrum nefna Milldíng má, margra er giætti láda; Persia allri og Asia átti fyrir ad ráda.

10. Hádi hann einatt hrotta þrá, heims um byggdir vída; Eingi treystaz madurinn má, móti honum ad strída.

11. Geingu allir hanns á hond, honum so luckann þiónar; Kóngurinn tók inn Chaldæa lond, og komst til Babylónar.

12. Israëls Land í audnu stód, enn um þessar Mundir; Þar var herleidd Herrans Þiód, helldur lángar stundir.

13. Þar var hinn dýri Daniel, er væmi Gydinga hryggdi; og sóma-

giæd-

giæddur Zorobabel, er sídar Musterid byggdi.

14. Unnt var Gydingum ordlofs nú, er óskad hofdu leingi. Enn Daniel kenndi Christna Trú, Kóngi og ollu hauns meingi.

15. Frá uppbyrjan Allda nú Arinn telja mátta; Hundrud fiogur, Púsund þriú, þriátku fim̃ og átta.

16. Clarelius het kiærn vid dor, Kóngsins Hershofdingi. Sá var Tyggia systur bor, sást ei hanns jafningi.

17. Sveitinn villdi orrusti í ecki leingur standa; Kóngurinn helldur hernum þvi, heim til Persia landa.

18. Spakur í kyrrdum Gramur gár Gud til fridar mykti. Tuttugu og níu toldust ár, er Tyggi frægur ríkti.

19. Hilmir eptir heims umvies, hnie frá baugi raudum. Kom til ríkis Cambyses, ad Kóngi Cyro davdum.

20. Peim var gefid Niflungs Nafn, nióti Handar lióma. Hann þókkti ei hinnum jafn, hverke ad Dygd nie Sóma.

21. Pegar ad ríki Sióli sest, sokótt vída átti. Glæpafullur giordi

flest, Gud sem, styggia mátti.

22. Ecki þolad ölldinn feck, Odlíngs glæpi stóru; af því margur undann geck, og í burtu fóru.

23. Clarelius hugsar hitt, hier af stofnist vandi; heimti samann Herlid sitt, og hellt í burt úr landi.

24. Hlaupa lætur Herrann sá Hrañar dýr um grædi; Hestar báru hasinu á, hofdu lánga mædi.

25. Vedurinn hvöss um hvíta drefn, hlunna vogmum óku, uns ad dreingir dýra hofn, vid Dalmariam tóku.

26. Olldinn geck frá Upsa sal, uppá land med gledi. Dogling sá het Daneval, er Dalmaria redi.

27. Honum var alt til lista lagt, lífsins mesta blóma. Eirnig lika er mier sagt, hann ætti Drottning fróma.

28. Odlíngs dóttir Elena het, af bar hverju Sprundi; Getid er ei um Grickja flet, gofugri finnast mundi.

29. Clarelius Kóngs á fund, kom med lidinu sniollu; Var þar þriggia vetra stund, velmetinn ad ollu.

30. Brodda sídann Gre frá Gram, giordi hugurinn bryna, Ødling gaf hønum Africam, og einka dóttur sína.

31. Kiorinn setst þar Kóngdóm í, kasinn gulli brenda; Sídann styrdi þeingill því, þadann af lífs til enda.

32. Ødling tamur vid unda kolf, auds og gefni dýra, Syni áttu sídann tólf, so vill bókinn skýra.

33. Grímur knúdi geir vid rønd, garpi hverjum frægri; Geirúlfur med vigra vønd, varla þokkti hægri.

34. Algarius ecki seinn, átur skeinkti Hrafni. Valebrunus var og einn, ér varga ól á tafni.

35. Víkingur stód varla kyrr, vígs á hialli raudum; Godvardur í stála styr, steypti morgum daudum.

36. Elentinus einatt bar Yggiar bál ad hilldi; Ascalones einnig þar, unda vakti gilldi.

37. Hertogi og Brúni reyndu rønd Rognis skyrtur styfdu; Eyvindur og Húni ilja lønd, Urnis sundur skyfdu.

38. Upp hef eg talid alla hier, Ødlings Kunda stóra, átte Kongur adra sier eñ launsyne fióra.

39. Opt Villifer ypti geir, ann-ar Randver merki, Vemundur þridie fleina freyr, fiórde Ulfar sterki.

40. Þrek so alldrei þokkti strángt, þeir ei afle treysti; þó bar Ulfar af þeim lángt, alla frægd og hreysti.

41. Eingi veit hanns megn ne mátt, meintu briótar sverda, ad honum mundi aflafátt, alldrei kunna verda.

42. Hanns jafníngia hvergi fann, hverki á sió ne landi, hverri skepnu heims um rann, halldinn ósigrandi.

43. Arfa Kóngs til frægda flest, fýsti þrátt ad vinna. Unni honum Od-líng mest, allra sona sinna.

44. Sat í fridi Fylkir lands, fram so stunder lida, Eingi þordi ullur brands, á hanns Ríki strída.

45. Brædur geingu á fødur síns fund, fá so hegdad rædu: Oss lystir um Laxagrund, ad leita vargi fædu.

46. Halur er margur heims um sal, hraustur í stúki skiallda; fáid oss skip og skatna tal, Vier skulum í hernad hallda.

47. Ydur skal látid ótt í te; ansa Kóngur mundi, lángskip tólf med líß og fe, er liggia á Arnarsundi.

48. Nóg skal Gull á skeyinn fært, og faung sem best til verda. Brædur þacka Kóngi kiært, og kvoddu sig til ferda.

49. Hann let velia Hervopn gód, Hundings Vod og skilldi; Brædra for so búinn stód, í betsta heimsins Gilldi.

50. Ulfar mælti: Morgni ad, munum vier segl upp draga. Ollum þókti er hann kvad, ágiætligarst baga.

51. Dagurinn kom, enn dimmann leid, dreingir ordlof tóku; Sídann ad biartri báru-heid, brautar vognum óku.

52. Hugur var þyrstur Geirs í goll, geyst þvj margir fóru; Varmar koma ad birtings holl, þar þryggiur fyrir vóru.

53. Hestar allir Hasla blóds; hrósudu dyrum treslum. Rolltu á lægi síkar flóds, fogrum undir reslum.

54. Glóudu veglig Grettis ból, greypt um stafna frída; A fáka hlies hin fagra sól, fleygdi geislum vída.

55. Brædur stigu á dælu dýr, dúka byriar þondu; Vargur tries í vodirnar snýr, og varpadi þúngri Öndu.

56. Glymia segl enn rymur raung, rakkar og stýrinn gellta; streingir emja straums um gaung, þá stormar skipinn ellta.

57. Ylgiur Ránar slýttu fer, slidru báss um strindi, eins sem flýgur elldíng er, undann hvossum vindi.

58. Bermi skipti báls um ged, byrinn nærsta þægur, Víkinga á votum bed, vardi fiogur dægur.

59. Þá nam Jotun hvæsa hátt, og hveptana belgia storma; Laungum drífur giálfrid grátt, geyst um siglu Orma.

60. Vedrid hvast úr hófi geck, so holdum nærsta ægdi; Átta daga um upsa beck, alldrei storminn lægdi.

61. Blakká grædis brimla mey, ad bádum sídum kreysti; biladi stiórn, enn fyllti sley, flotann sundur leysti.

62. Grams launsynir allir á, einu skipi fóru. Humlúng þenna hrakti frá, og hin þriú nærst honum vóru.

63. Báru fióra byrni þá, bylgiur vída elltu. Eins þeim líka alldann blá, á ymsar sídur velltu.

64. Hvi mun vilia hamingiann hier, hvecki slíka sýna? Ellegar skal hun ætla sier, Ulfars líñ týna?

65. O! þier Gudir straums og storms, stillid reidi bráda; Látid drottna Olldu Orms, Önd og sinni ráda.

66. Alldrei vara af því mun, ydar frægd ne Velldi; þó Ulfar hitti æfi hrun, og allar frægdir selldi.

67. Sídst má hafa hamíngiu vid, hvecki slíka sinni. Æ stód hún á adra hlid, enn þó lítid vinni.

69. Eingu rádid audnann feck, fyrir ólmu Vinda slagdi, æpandi til Gudanna geck, giæfann og þetta sagdi.

69. Urnir vedra hygldur ser, uppá vini mína; Herrann Ránar honum ler, hiálp og adstod sína.

70. Þier sem elskid orlog sterk, adsiu Hreystimanna, látid Ægis illsku verk, ydar Guddóm banna.

71. Ef virdar ad folum verda ná, val mun riódann smæcka, lid

ein

einheria ydur hiá, ætla eg muni fæcka.

72. Gud orlaga giætti ad Þyl, hvad Giæfann þrúnginn rædi. Soddann fregn hanns eyrum í, ákafliga blæddi.

73. Fann hann Skrymnis fóstru korn, og feck so ordum venda: Arkadu á fætur olldrud Norn, í Alfheima skal þig senda.

74. Sídst þú vera svanninn mátt, sein í eyrinda storfum; Kvedin vora ber þú brátt bádum forniots Orfum.

75. Inn þeim biódi Austra lid, illskn bindast verka, og so líka vægia vid, vin sinn Ulfar Sterka.

76. Ellinn gamla Ægi fann, alla mýk þú brædi. Þursa storma reidinn ran, og Ránar fílum mædi.

77. Ægir stóru strauma sofn, stödugt sundur greiddi. Bródir ellds á hæga hofn, hlunna fáka leiddi.

78. Hrannar toku hestar þá, hvíld á lægi vænu; þar var fagurt land vid lá, laufgad blómstri grænu.

79. Siós af volki Dróttinn dæst, drafnar, snáka festi; værdir tóku, vill

vill því nærst, virda múgurinn flesti.

80. Mig frá Kialars Krúsar ál, kallar svefn og gríma: Ein er druckinn Odins skál, endast fyrrsta Ríma.

## Önnur
# Riima.

1. Asa minni í annad sinn, ætla eg fólki skeinkia eina tíd, þó hugur um hríd, hafi nú margt ad þeinkia.

2. Regnis Önd um raddar lønd, róms vill fiadrir hræra, og studla liód á streingia hliód, stillt med lagi færa.

3. Hef eg á Grun, ad meingid mun, minnid Ulfars hallda; Í Sigthýrs ker, ef uppsett er, olid Svidris kallda.

4. Þyrstri olld skal innann kolld, Odins góma sala; Um voku stund og vetrar mund, med Versa smídi svala.

5. Gudinn oll í Asa Holl, Ydur skal fyrrst umbeida; Mærdar jord med gróda gierd, til góds ávaxtar leida.

6. Dropum flóds þier akra ods, unda Qváſis doggvid, ad ſkemt ſie olld, enn ſkerdiſt kvolld, og ſkard í vokuna høggvid.

7. Þegar hier eg flytia fer, fólki Hródrar meſſu, lifande Sál, ſem líf og mál, lenid kvædi þeſſu.

8. Mannſaungs tal ur ſagnar Sal, í ſæti þagnar ſtígur: Niárdar ond um næmis lond, nú til ſogunnar flýgur.

9. "Vidris hvarf þar veitſlu ſtarf, vindar úr ſeglum rýmdu. Fákar hlunns vid feſtar grunns, faſtir í, læginu hýmdu.

10. Ulfars þiód var ordinn móð, af ſióvolki laungu, ſem fyrr var ſagt, þá feingu hrakt, feikna vedrinn ſtraungu.

11. Í þeſſum ſvip ſiá þegnar Skip, þar ad lande hallda, tólf med ſkraut á birtings braut, beint úr hafinu kallda.

12. Fram̄ á leid þar flotinn ſkreid, fagra glanſa eygdi; því lægis ſól um Lara ból liómanum vída fleygde.

13. Frægra ſkraut um fiſka laut, frá eg eingi ſæi; Einn var þar, ſem af þó bar, olldu jór á lægi.

14. Hofudid gyllt med gulli fyllt, geisla lánga sendi, vídt um lón ad lýda sión, líkarst hrísla eda vende.

15. Fidrid liek, þá fallid viek, fliótum strauma hrofnum: Olldu hró ad hofnum dró, hægur byr á stofnum.

16. Fley því nærst voru festum læst, fiell þá vodinn þunna. Allskamt frá, þar Ulfar lá, ofann sokk fleinn til grunna.

17. Vid siglu stód med sína þiód seggur á Drekanum dýra, hár og digur, hofmannligur, er honum átte ad stýra.

18. Hár var svart, enn hörundsid biart, hulid dyru pelli; Herjans skar í Hende bar, hofdingligur á velli.

19. Ulfar spyr, þann eflde styr, áttu flotanum ráda? Nafn þitt mátt þú herma hátt hreytir Kraka sáda.

20. Ansar hinn þá Hetiann stinn: Harallд má mig kalla; Enn hermed mier, hvad heitid' þier hlinur greipar mialla.

21. Andsvor fliót gaf aptur mót ullur Drágons reita: Odling sá í Africa Ulfar let mig heita.

22. Arfi hanns eg er til sanns, Aptur Haralldur tiede: Ydar mekt og frægdin frekt fyrer oss koma rede.

23. Svidgrímur Jarl mier sagdi sniall, á sió og einnig landi, Manns af krapti, hinn miøg vel skapti, mundir ósigrandi.

24. Leitad hef eg um lángann veg, linna balldurs hlída. Komdu nú, ef þorir þu, þegn vid oss ad strída.

25. Diafnt er, Hann Ulfar tier, ockar lid ad leika; fólk mitt þreytt og orku eydt, illa miøg til reika.

26. Olldinn fá ei mørgum má, móti sigurinn bera. Nídíngs verk mun virdum sterk, vansemd í ad giøra.

27. Harallbur kvad, og hló vid þad, hilldar tamur verki: af ótta mest nu oss synest Ulfar titra hinn Sterki.

Ei munt siá, nam Ulfar tiá, Odins logann þunna, lifandi hier úr hendi mier af hrædslu falla kunna.

29. Ulfar bad nú eptir þad, olld vid búast strídi; Eggian jókst, enn ákof tókst Orrusta á diúpum vídi.

30. Eggia hríd var ærid stríd, Ørvar flugu af megni, eins og þeyr af þurrum leir þyckvu fleygir regni.

31. Ulfars mund vid málma fund mesta afrek sýndi; laufinn hanns, þess lista manns lísi margra týndi.

32. Alma týr, sem ólmarst dýr, ungum fæckar kidum; Felldi menn og so i senn sier ad bádum blidum.

33. Sást ei hanns á hlýrum stans hárs í vedri grimu. Þeir felldu olld, sem kastast kolld korn ur jeli dimu.

34. Orva hríd, þá stodvast Stríd, stafna samann egna, á skipum brátt, enn hesta hátt hogg-orrustu megna.

35. Tárast gierd, þá gánga sverd giegnum heila torgir. Blódid rann, þvi margur mann misti heila borgir.

36. Ulfar metst af ollum betst orrustu lánga hádi; hiálma rauf enn hausa klauf, og hvad sem sverdid nádi.

37. Harallds þá nam hrodid fá hlunna fáka fióra; Vid heliar ró ei þrotar þó þúnga styriar óra.

38. Manna ófarir sinna sier sídann Haralldur sterki. Hamadist þá, og hrotta brá, hradur ad járna verke.

39. J þessum svip hann þriú hraud skip þeirra Brædra hronnum,

 so

so á þeim lífs stód eingi kífs eptir þar af monnum.

40. Ulfar samt med gedid gramt geira fundinn stælti; fiogur enn let sockva senn siglu dýr, og mælti.

41. Ecki má hier uppá siá, endalykt hver verdi; Hreystimenn þier hoggvid enn helldur stórt med sverdi.

42. Leitid fiár, enn unda ár aukid kempur þrifnar, so ydar frægd sie alldrei lægd, uns ad himininn rifnar.

43. Halldur sá ei soddann má so búid leingi standa; hann vedur fram í vopna glam, og vo til beggia handa.

44. Kynia breid ad kestann reid, er kappinn bar í hendi, Afreks mann med henne hann til heliar margann sendi.

45. Liek hann so, og leingi vo lýd med hreýsti sanna, ad eptir stód af Ulfars þiod eingi lífandi manna.

46. Heilir þar á hlunna mar hlýrar allir vóru, hreysti þrótt ad hræddist drótt og hogginn þeirra stóru.

47. Fiórir enn þeir frægdar menn fiori ræntu hollda, ad allri

sión

sión sem olmarst lión í úngum lamba
fiollda.

48. A þeirra skip í þessum svip
þegninn komst hinn mesti, Hallldur brátt,
og bregdur sátt, berlíngs vedrid hvesti,

49. Bádum hondum benia vond
briótur reiddi geira, Ulfari ad og þeinkti
þad, hann þurfa skylldi ei meira.

50. Skiallda grer sinn skada sier
skuli hann hoggid hlióta, stórhugadur
hregstimadur hugsar orku ad nióta.

51. Málma thyr á móti snýr, mætu
kastar sverdi, Haralld á, sem hardarst
má hlaupa sídan giordi.

52. Herdti tak um bryniad bak
briótur ættar tánga. Harralldur stundi,
og hiellt ad mundi hriggurinn sundur
gánga.

53. Orkann þraut, enn Haralld-
ur hlaut harla frægur detta, sviptur rond
og settur í bond sídann eptir þetta.

54. Harallds menn med undrum
enn alla setti klockva. Þeir þágu grid
og þecktust frid, þad nam hilldi slockva.

55. Ad Haralldi geck, sá hródrinn
feck, hreytir og mælti veiga: þú

 lig-

liggur lágt, þig líka hágt lætur ham-
íngian eiga.

56. Hef eg þó ei vid hrotta þey
hitta þína líka. Heimurinn valla hier
ad kalla hefur nú kempu slíka.

57. Ættir þín sem ódol sín er þier
skylldt ad kynna; líf skallt fá og líka þá
lækníng sára þinna.

58. Samjafn þer ad einginn er,
ansa Haralldur nádi, ad allri frægd og
æru nægd undir sólar ládi.

59. Þigg eg grid med fullum frid,
af fleygi Sofnis dýnu; því oll mín kior
og einnig fior eru í valldi þínu.

60. Ollu frá skal ydur tiá, efftir
milldur styriar. Eptir þad, sem Ulfar
bad, æfisoguna byriar.

61. Fordum tíd red fadir minn
líd, og felldi Valskar þiódir. Þess eg
get, hann Þórer het, enn Þórunn nefn-
dist módir.

62. Fiergamall var fadir minn sniall,
þá fyrrst eg vara nádi; sat med ró, enn
siálfur þó sinna Ríkia gádi.

63. Fimm og þriá ad Fylkir
sá fræga Brædur átti. Afreks verk,
er

er opt voru sterk, af þeim segia mátti.

64. Kóngur einn til sæmda seinn, sá het Jokull ille, fodur minn vann, og felldi hann, því sátt var þeirra í milli.

65. Fÿsti mig í sleina rig fodur míns sídann hefna; giordi eg brátt úr ymsri átt ad mier lidi stefna.

66. Furdu knár eg fimtán ár, feingid núna hafdi. Prosti minn og menning svinn, mig til hefnda krafdi.

67. Kesiu mín gaf módir fín, mier, þá eg bar sídann; betri gior ei hittist hior, heim þó kanne vídann.

68. Fólkid bióst í fleina gióst, fley á Eya bandi. Þá hafdi eg um þorska veg, priátin frá landi.

69. Jarlar tveir med þegni þeir, þessa jóktu hilldi; Olafur het, sá alldrei gret, annar Bláus gilldi.

70. Sigldum vær ad sumri nær, saung í hveriu bandi; Furdu snar oss byrinn bar, burt frá voru landi.

71. Ormar tries og ylgir hlies ómak laungum jóku; herdtu skrid, þá Valland vid, vænstar hafnir tóku.

72. Olldinn geck frá Upsa beck, úlfi ad brytia fylli. J strídi snar, á storðu þar, styrdi Jøkull illi.

73. Heriudum vær á hendur twær. Hrucku menn til flótta. Vídt um slód þar þusti þiód, þúngum halldinn ótta.

74. Olldinn Lands vid odda Dans, átti þrauta skoru. Borgir siós og lægis liós, lieku í valldi voru.

75. Hradt um torg ad hofudborg, hiørva færdist giálfur. Ossi á mót vid málma rót Milldíng kom þar siálfur.

76. Hardfeingt lid þá hittist vid, Hedins vakti svanna. Med Sióla var ád sóknum þar sextan þúsund manna.

77. Branda hríd þar hafdist stríd; hlífar sundur brustu; Sem steyptist skúr, því undum úr, olldur sára þustu.

78. Lestist holld, enn hrutu á folld, Hofud af búkum daudum; benia sá þar elfar á orrustu velli raudum.

79. Jøkull snar ad vígum var, vanur í morgu strídi; hoggur og slær á hendur twær, til heliar vora lýdi.

80. Eingi rond mót Ræsis hond, reysa Madurinn þordi. Þýng-

dist

dist kross, enn orrustann oss, ollu midur þorfdi.

81. Sióli knár vid sverda fár, sælldadi unda regnum; Olaf Jarl og Jór á hiarl, járni lagdi í gegnum.

82. Býsnum enn hann brytiar meñ, búkar þoktu velldi; Josur so med járni vo, Jarlinn Bláus felldi.

83. Sókti eg fram̃ í sverda glam̃, sosem leonid grimma; Olldinn dock til heliar hrock, hord var jarna rimma.

84. Jokuls fann eg merkismann, Mardonius ad heiti. Af þeim hrók þar einnig tók, egginn svardar leiti.

85. Þetta sier, og þockti verr, þeingill Valskra lýda; ad mier reid, sem elldíng greid. Eg nam Kongsins býda.

86. Jokull hió, enn járnid smó jotna stig í gegnum; Særdist Brióst og sundurhióst, sára steypti regnum.

87. Eg brá hradt, enn hvergi latt, herians raudum elldi; Hiálminn á kom egginn blá, og af honum þridiúng skelldi.

88. Ægis bord med ollum sverd, unda skessa riste; Sídu Hond, og sína ond, sióli vondur misti.

89, Hvíldist vigur, hafdi eg sigur; hætti snorpu stríði. Ottast þiód, sú eptir stód, og til Borgar slýði.

90. Ræna sídst þar villdi' eg víst; vikum ofann ad sandi; stigum á skip, og strax í svip stefndum undann landi.

91. Rumdi Gnod, enn glumdi vod, greniadi siór á raungum: Olldu lión um upsa frón, elltu stormar laungum.

92. Leiddi Drosn til lands ad hofn, lægis hesta sína: Fólk af hlie á frónid stie, fann eg módur mína.

93. Heima eg þar um veturinn var; vorid kom hid dýra; mig fýsti brátt á hermanns hátt í hernad lidi stýra.

94. Bió eg drótt og skip mín skiótt skiærum farar blóma. Báru liós um blacka siós, brann med fogrum lióma.

95. Frá Odins mey þar fólk og fley flutti brádur andi; Falldar tries med fíla hlies flonudu undann landi.

96. Vestur um heim og vídann geim, Vindar fylgdu skeidum. Orrusta hord var einatt giord á Sæ-kónga leidum.

97.

97. Alldrei fyrr nam bresta byr báru mærina góda; Enn fundum vier vid Skotlands sker Skiolldúng Irskra þióda.

98. Hrólfs nafn bar, sá hilmir þar, her til orrustu krafdi. Skatna val og skip ótal, Skiolldung Irskur hafdi.

99. Kvediu þraut enn Hilmir hlaut hlies vidbúast slagi; Adsóknar so Uppreis þar orrusta grimm á lagi.

100. Hnigu menn med ógnum enn, undur branda stódu; um þilsør, sem unn í vør, orrustu tiarnir flódu.

101. Irsk tók drótt þá dauda sótt; Døglíng siálfur úr kísi, á flótta rann vid fiórda mann, feck so biargad lífi.

102. Skip hanns øll, og mundar miøll, med oss burtu tókum; Sídann um geim og heilann heim hernad vída jókum.

103. Fimtíu ár um fiska krár flutt hef eg messur vigra. Haudri á var eingi sá, oss sem mætti sigra.

104. Fyrr enn vier nú fundunst hier, feck eg hneysu alldrei; ydar líki eingi ríkir undir sólar tialldi.

105. Ydar frægd og orku nægd, allur heimur fagnar. A enda sín er saga mín. Sídann Haralldur þagnar.

106. Ulfar tier: þig vitum vier, vera garp hinn mesta; leystur skallt, enn víst óvallt, vid skulum felag festa.

107. Leystur hann so lækning fann, lángri studdur giptu. Felag bundu, all-vel undu, audnum med sier skiptu.

108. Frá eg var á fróni þar, friáls af ójofnudi, olldinn sú í nádum nú, nærstu tólf mánudi.

109. I þagnar hús mig hárs frá krús, hlýri kallar dauda; Baleigs ker því brestur hier, blódid Qváſis rauda.

Þridia
# Riima.

1. Herians Bikar ætla eg enn, ydur bera gódir menn; Ef þier vilied eina stund Odins gamla þiggia fund.

2. Ulfars brædra eina skál, upp ad setia helld eg mál, og á hana skeinkiá þydri þiód, þeingils Asa krúsar flód.

3. Minnkar ad sønnu mikid þó, Mímis vinar horna sió: Mín þad vitna mærdar drøg á máls íláti siatnar miøg.

4. Hycknar løgur góma Gríms, giørist því til mærdar síms; ærid dausur, eins og þad, eingann finnur smeckinn ad.

5. Drottnar Odræris enn á ny, ydur bidia verdur því, efnid kvæda auka vid, og ecki spara dverga lid.

6. Veitid Mærdar akurinn á, allda fødurs horna lá, óspart, so hann grói greidt, og geti af sier ávøxt leidt.

7. Lienid bædi líf og krapt, sem losligarstann fáid skapt, soddann hluta edli í, so allir megi dást ad því.

8. Mannsaungs þannig hættir hial, hulid og geymt í þagnar sal; Ser ad vana fræda spil, og sísann mála søgunnar til.

9. Af Grúmi nw og hlyrum hanns, hefia verdur mærdar dans, fyrr þar dryckiann Baleigs brast, þá brædur skildi vedrid hvast.

10. Ellti stormur ylgi flóds, um ymsar dreisar Hasla blóds; ad spreyngi kom-

komnir heſtar hlies, hvíta ſkóku fallda tres.

11. Kára og Ægi orku þraut, öll-dinn brædra þeſſa naut; Nádu hofn vid Húna ſand, hiernærſt geingu þeir á land.

12. Heriudu vída á haudri þar, Hnígur öll ſú fyrir var. Um ſumarid allt þeir afla fiár, og unnid geta Borg-ir þriár.

13. Giorſemum og greipar mioll garpar hlódu ſkipinn öll; letu ſkdann landi frá, lidid allt var ſumarid þá.

14. Vodunum Kári andar ad, ept-ir þvk ſem huguriun bad, og med hóſi feck þær fyllt, faldar maſtra bloktu ſtillt.

15. Fákar hlunna fóru ſpakt. Af ferdum þeirra er ecke ſagt, fyrr enn Kóngſins hollu hiá hafnir tóku í Afri-ca.

16. Fadir þeirra, ſaddur ſeim, ſæmi-lega fagnar þeim. Þóckti honum bædi ferdinn from, frægdarlig og afla-ſom.

17. Ulfar Sterki er ei á veg., Undar þetta Kónginn miog, ad ecki kemur um haustid hann, og helldu allir druck- nadann.

18. Odlíng þreyir arfa sinn. Einatt vættu tárinn kinn. Sorgum spenntur Sióli því, siúkur reckiu lagdist í.

19. Sorg einsomul ecki fer. Eptir þetta so til ber: Drottníng Kóngs, hid dýrsta víf, dopur vard ad missa líf.

20. Kóngsins jók þad jára sorg, og sierhvørs manns í þeirri borg. Brottu hvarma bergi af bruna læki hiartad gaf.

21. Sómalig var greftran giord gofugligri Nistis Jord, sídan druckid erfis øl. Eitt og samt er Kóngsins bøl.

22. Fyrir Kóngi toludu tídt tignir brædur einka blídt; Bádu hann hrinda beiskri þrá, Brúdi daudri hyggia frá.

23. Annarrar skulum afla í stad, ef ydur mætti kiæta þad. Enn þier á- nefnid þessa Frú, þeingill red ad ansa nú.

24. Konuvandur ærid eg er eptir þá sem misti eg hier; veit þó eina Gullhlads Sná, Gylfa jód í Asia.

25. Ammon heitir Ødlíng lands. Yngvor nefnist dóttir hanns. Ef svinna feingi eg Silkihlín, sefast kynnu harmar mín.

26. Ascalones innti þad: Yngvoru skulum vier sækia í stad. Kvoddu Gram, og geingu á fley. Geispa tekur ráuar mey.

27. Valir slæda viku á bug. Vindar beindu þeirra flug, blómstri voxnu fróni frá, Forniots synir elltu þá.

28. Hestar siós um hvala bás hvergi liettu sinni rás, fyrr enn lendtu Asia í, inni á hosn vid Kóngsins bý.

29. Brædur geingu í hilldar ham hallar til, og fundu gram; upp so bera eyrindinn ný. Allvel tekur Kóngurinn því.

30. Vilie hin dýra Dregla Brú Døglíng játa; megid þier nú med ydur færa hana heim. Hún skal svara málum þeim.

31. Vísis jód það vilja letst. Var hún síðann Kóngi fest, og tilbúinn ferdar fliótt med friðann mund og aura gnótt.

32, Jtar tóku ordlof heim. Ødlíngs dóttir fylgdi þeim. Stolltann kvöddu Stilli þar, stigu so á hlunna mar.

33. Seglinn voru seymd vid rá, so útþaninn mestrum frá; Bondum vafinn húninn hver. A hiólum lieku streingirner.

34. Allt var það í einum svip, undan landid helldu skip, sifur ellds ad siglum viek, siálf vid stýrid alldann liek.

35. Fylgdi jafnann fákum siós frændi báls og Ægis drós í Africam alúdlig; á Arnar sindi hvílldi sig.

36. Brædur geingu af Borda mar til borgar heim sem Kóngurinn var, og hin fríða resla rein. Ræsir fagnar öllum þeim.

37. Reis þá Gylfi reckiu úr; tiena þóckti harma skúr. Og skál fagnadar skeinkti þar skyckiu sól til virdíngar.

38. Gladdiſt meingi Grams vid ró; ad gómum veitti horna ſió. Elſi ſtaupa ódum ſlaut um andar gaung í þánka laut.

39. Kiærann ſitur Kóngs í holl, kynia rióð og hvít ſem mioll; augum hvergi unad gat, utann þar ſem Grímur ſat.

40. Aſtir hafdi hún á honum feſt; unna ſiálfum Kóngi letſt. Varla gat hann variſt því Vífs áleitni ferdinni í.

41. Giæfur og ſpakur Grímur var, geyſi fagra áſýnd bar; Olld því geyra geymi þann Grím hinn Prúda kalla vann.

42. Var þá druckinn veitſlann dýr. Víſir henni í Brullaup ſnýr. Hóſt hún upp med gledi og glaum. Gramur veitti horna ſtraum.

43. Þióðinn ſkála þá nú lút, þar til hún var druckinn út. Bióðinn þraut; Enn hodsfolked burtu reiſti giofunum med.

44. Siólí og Drottníng ſátu um kyrrt. Samfarirnar fellu ſtyrdt, vid hann

hann búa þökki þúngt. Þeigi á samann gamallt og úngt.

45. Hvar sem elfar glóda gná Grím hinn Prúda augum sá, uppá lægis liósa ver logudu siónar elldarner.

46. Einginn feck þó ástarhót eya gulls af málma briót, hvada glens sem hafdist ad, hún þurfti ecki ad reyna þad.

47. Eptir þetta innt er mier einu sinni so til ber; Drottníng geingur gledisús Gríms hins Prúda í sængurhús.

48. Þegninn hvíldi í þessum stad. Þángad geingur Drottníng ad. Kraft litla átti vo. Ødlíngs bedia mællti so.

49. Um mig logar elsku hyr; Una má eg hvergi kyrr; komid er því kiæru ród, Kóngs son, allt á ydar nád,

50. Geymt hef eg þier meydóm minn. Máttarlaus er fadir þinn honum ad spilla hvílu í. Hvímleid ellinn velldur því.

51. Er þad Bøl fyrer únga mey, ørmum spenna soddann grey; þeim sem männinn þurfa-frekt, þad mun varla skemtilegt.

52. Mín til reidu elskann er og ydur í tie, ef vilied þier, af mer þiggia ástar hót. Ansar Grímur henni á mót.

53. Mælid ei so mikla skemd. Miñkar soddann vora fremd; ad falsa skuli eg Fødur minn hier, forbiódi þad Drottiñ mier.

54. Ecki stodudu afsvør nein; Ei þeim gegndi menja rein. Alvørugefiñ Amorslig uppt hvíluna lagdi sig.

55. Um hann ferk hún ørmum knýtt, einatt fast og furdu þídt, af allri líka alúd kyst. Ecki spardi neina list.

56. Kóngssón sleit sig Kiæru af, Kinnhest stórann Drottníng gaf; Síd-ann þreif til falskrar frúr, og fleygdi henni sænginni úr.

57. Flot á gólfid Drottning datt. Døglings Arfinn mælti hradt: þú ert galinn í gyrnd sem svín, og giætir lítid sóma þín.

58. Uppstód kyndug Inna Grams, ecki fríþn, í vondum hams; Kóngs son hvessti augunn á, ossa reid, og mælti þá:

59. Fæ eg ei þessa forsmán þier fullgolldið, sem verdugt er. Ydar þvi velldur virdíng frøm, og vaxinn gipta fylgisom.

60. Audnumadur eins og þú ætla eg varla fædist nú, þessum hluta heimsins í; Hneckia bágt mier verdur því.

61. Samt skal eg mæla þó, fyrir þier, og þínum Brædrum nockud hier. Efalaust þad á Ydur hrín, allt sem krapstar túnga mín.

62. Hærukarls á hauka stig hafid þier Brædur falsad mig, og svikid mínum Fodur frá. Fyrir þad ydur skullda má.

63. Þá betst ydur hiørinn bíta má í Bardaga, þad legg eg á, fyrir eins skulud fetla kólf feigir standa Brædur tolf.

64. Sá sem stýrir hvossum hiør, hafa skal allra Brædra fiør; Enn þier sieud um sama Bil sosem heliar dæmdir til.


65.

65. Þeingils Bedia þagnad feck, þadann so í burtu geck; þúng í skapi þorna vein þetta geymdi med sier ein.

66. Bistur klæddist bauga þór, Brædur sína hitta fór, og þeim greindi øll til fulls ordinn Seliu hlýsi gulls.

67. Vier skulum drepa vkf í stad, Valebrunus mælti þad, so tofra Norn í tryggdum kolld taki skript og maklig giolld.

68. Grímur þessu mælti mót, mun þad lítil rauna bót, Audgrund leida æsi frá. Af því styrjolld rísa má.

69. Æfi vorri og øllum hag Audhann rædur nótt sem dag; Forløg ecki fordunst ill. Framkemur þad hamingiann vill.

76. A þad sáttir urdu þeir. Ecki bar til fretta meir. Leynt so Brædra linnti hial. Ekka endast Rímann skal.

71. Tæmd er hin þridia þundar krús þagninn setst í kvæda hús. Bródir vauda bidur mig, ad Bragarins smídi hvíli sig.

Fiórda
# Ríma.

1. Aptur vaktur ódar straumur úr Austra brunni: Róms á skálir Røgnis minni renna skal í fiórda sinni.

2. Herians veitsla hefst nú ein í húsi kvæda; Uppsett bordinn læt eg lióda Løndúngs pryda krúsar gróda.

3. Rómid þier fólk til Kvæda rans; sem kiæti unnid; þar skal Freyu erfid inni ydur veitt af hendi minni.

4. Sett skal nidur á sónar beckinn søgunnar letur. Onytt hial og ønnur kiæti eiga stíga úr þagnar sæti.

5. Austri, láttu undir Ovásis ákaft blæda, medann eg af upsa heidi Ulfars skip til hafnar leidi.

6. Øll so megi Odar ker af ølinu dyra máls á Bordi standa stóru, stadfyllri enn ádur vóru.

7. Herians skal sú horna fyllinn hønum fagna, og heimkomu hraustra þegna, af hørdum fundi járna regna.

8. Mannsaungur er minn á enda. Menn tilhlidi, medann søgunnar flytur frædi feriann róms í þessu kvædi.

9. Þar var falid í þagnar ranni þýsid Gauta; Kóngs um Brúd-

ar breitni lióta Brædur letu rædu þrióta.

10. Skamt var farid skiærri sólum skiá brautir, sim er sáust slidru reita fákar þar á hafnir leita.

11. Logadi vída Lóna hyr um lægis húna; lióma gleymdi sólinn sínum sunnu hlies fyrir geislum sínum.

12. Glampann vída bárann bar af brimla sólum, eins og vindur ellds úr bali ótal fleygir neysta striáli.

13. Otrar hlies á Arnar sund og inntil hafna, í hafrænu stillri stefna, streingi letu þeir útgefna.

14. Festa skatnar Fáka siós á fogru lægi og um bratta Bryggiu stíga Byrdir grana letu síga.

15. Ulfar Sterki stie á land og stolltir Brædur. Þann skulu allir lofa lýdir, sem líss þá færdi heim um sídir.

16. Hlýrum fylgdi Haralldr Kesia heim frá Grædi, sólum prýddir fogrum flóda. Feck þad vita Stillir þióda.

17. Gledinn hiartans geck so ykt þeim gamla Kóngi; fognudur stór med frelsi aungu feck sier rúm í brióstí þraungu.

18. Ulfari geingur elli hinkginn Odling moti. Fundum þeirra fadmlog sæta, og fagnadar beggia kossar mæta.

19. Oskum gódum ecki gleymdu adrir helldur; Menn adkomnir [illegible] þuldu. Kóngur og vinir sama [illegible].

20. Siklings kundur, Sióla innti af sínum ferdum og vidskiptunum Haralldz hördum hanns og fleiri snildar giördum.

21. Mest þar þókti Milldingum og meingi fleira. Afreks verkinn undra stóru öllum leingi í minni vóru.

22. Inn í stadinn Ödlíng leiddi Ulfar hrausta; Sætid let hann hafa hærsta, Haralld Kesiu þad hid nærsta.

23. Geck þar næst í gøfugt sæti Grímur Prúdi; og so hinna hver ad ödrum, hlírar prýddir dreka fiödrum.

24. Siálfur skipar sveita stýrir sitt öndvegi. Drottningiun til handar hægri hafdi sessinn ecki lægri.

25. Virduglegurst veitslan hóffst í vísis ranni. Herrar dýrstir hornin spenna; hrannir staups um varir renna.

26. Gladir sátu gøfugir menn med Gamanrædum; olteitid sem áfram̄ knúdi, allir, nema Grímur Prúdi.

27. Grím sá eingi grøn vid horna gladann minnast; Ecki helldur af hanns munni ordid nockurt falla kunni.

48. Undirstendur Ulfar þad, og undrast giordi; Hlýra sinn med hægum ordum heimtir undan Dryckiubordum.

29. Geingu hlýrar tveir á tal úr Tyggia ranni. Bródir kiært, Ulfar innir, ógledi hvad velldur þinni

30. Innti Grímur áløg stiúpu ill-rar sinnar øll vid skipti sín og svanna svinnum runni greipar fanna.

31. Ulfar mælti: ill so meiga áløg hepta: Liliu fingra fannar drifta fiorinu láttu hiorinn svipta.

32. Giøri eg þad ei, hann Grím-ur tier, því giæfann rædur, hvernig mínum høgum lýdur. Hvad eitt sinna tkína býdur.

33. Ferliga mundi fadir minn reid-ast fólsku þeirri. Kiært er miøg, þó víst sie verra, vísid únga gømlum herra.

34. Einnig mundi Ammon Herr-
ann Asia manna, þá adburd frietti hañ
illsku minnar, eflaust hefna dóttur sin-
nar.

35. Ecki munum vid í þad siá,
hann Ulfar tiedi. Mitt skal Svidris bál-
id breida Brúdi Kóngs frá æsi leida.

36. Gánga skalltu í háa høll ad
Hilmis kiæru. Deilldir yckar minni og
meiri mæl þú sniallt, so allir heyri.

37. Rodna mun þá Refsa skord
med reidi flióta, og ordum vondum ad
oss hreyta. Ordsaka skal þannig leita.

38. Ansar Grímur: ydar Rádinn
á skal hætta. Tignir Brædur talinn
lietta; til hallar geingu eftir þetta.

39. Grímur stie fyrir Stillis bord,
sem stolltum hæfdi, innti rett, því ein-
ord krafdi, atvikinn þau Drottníng haf-
di,

46. Ordinn, verk og álog vond,
so allir heyrdu. Øllum kom í stans, þeir
størdu, og stórkostiliga undrast giördu.

41. Ymsum litum Ødlíngs bedin
andlit klæddist; farvann þann sem óttiñ
eyddi, inn þar jafnódt reidinn leiddi.

42. Bardist ótta Brædinn vid í Brióssi storu; Reidinn um sídir mátti meira. Menn þad skulu seinna heyra.

43. Stardi Ulfar strauma báls á stollta gerdi, Siklings arfinn sá fyrir bordum, sídann mælti þessum ordum.

44. Ydur er, Drottning, ómakligur sá yndis hofgi, klena sæng med Kóngi byggia, en kyrsisliga hiá þrælum liggia.

45. Ansar Drottning, Ulfar, giorir þú ad oss þægia? Eingi bad þig ord til hneygia, illur þræll þú máttir þeigia.

46. Af svorunum þínum sinnis fólsku sie eg giorla. Þó steikti Blossinn ydur hier alla, eingi mundi fiarlægt kalla.

47. Diarfur reidist Doglíngs bor, enn dróssinn þagnar, og med snorpum dor útdregnum Drottnínguna lagdi gegnum.

48. Hel tók vís, því hiör greip önd úr hiartans inni. Vid þad hnickti hverium manni. Halurinn geck af Kóngsins ranni.

49. Mæltu allir miog þad færi ad maklegleikum, fyrir hennar hegdan slíka, heiptar ord og metnad líka. 50.

50. Sióli bidur, ad sæmilig giø-
rist svanna daudum útførinn, sem er til
sidur. Allt var giørt sem Kóngurinn
bidur.

51. Seggir grófu sveipad líkid sil-
kiblæu. Enn á medann þeir erfi heya,
af ødrüm skal hier nockud segia.

52. A skal minnast Ammon Kóng-
inn Asia manna. Briótur triettir láda
linna, Lát Yngvarar Dóttur sinnar.

53. Ramliga so reiddist Gramur
rauna kvisi, ad hanns varla grimdar
geysi gaf sér rúm í þánka hreysi.

54. Her óvægum vísir lætur vída
safna, og sínum Brædrum saman stefna.
Sinnar vill so Dóttur hefna.

55. Budlúng átti Brædur sex,
þad Bókinn skýrir. Hlýrar opt í her-
nad fóru. Hertogar þeir allir vóru.

56. Einn het Remund. Ei þann
brestur afl nie horku; Herbrandur og
Hróar serkur, hverutveggi nógu sterkur.

57. Virgilius og Valentinus vig-
urinn grættu; Fenicanus seggurinn stot-
ti, Sorla klædum margann sletti.

58. Þessir komu Brædur búnir í Bugnis Ora. Sex þúsundir hvereinn hlýra hafdi lid til Orrustu stýra.

59. Stillis lid var stáli klædt í stríd tilbúid; þeingill hafdi þá ad nýu þúsundirnar átta og tíu.

60. Bistur lýsir Budlúng þok og Brædur gilldir, í Africam þeir ætlt ad hallda, Ulfari Sterka heiptir giallda.

61. Hiernærst voru herskip mørg úr hrófum dreginn, og med skunda sett á sióinn, sídann út af vørunum róinn.

62. Budlungs herinn Bátar fluttu á bússur stórar. Dagurinn vannst til varla meira. Vopna þiark þar mátti heyra.

63. Øll voru vofd hin føgru fley med fullu bondum; Fílar geims um ʃgamma ʃtrindi gininu ʃneru undan vindi.

64. Grædis dýra gefnar tár um glammir flódu. Af þeim geisslar lángir lidu, linnar hlies þar áfram̃ skridu.

65. Nú var Kóngur kominn til skips og kaskir Brædur: vopn og fans í vedri gódu; Vargar hlunns á lægim stódu.

66. Silki voru segl uppdreginn so vid húna. Anda þúngum ellda vinur ad þeim blies, so raunginn stinur.

67. Vellta Bussur, víot um bord þá vodirnar svíngla. Nótt og dag í naust þaungla nolldrar rá, enn streingir saungla.

68. Vokt af svefni sævar' fridla, siglu húna þandi neip ad gylltum gronum, og geispadi móti húsabonum.

69. Alldrei lægdi olldinn segl í óska vindi, fyrrenn módum hlunna hundi hafnir tók á Arnar sundi.

70. Þeir festu skeid, enn fluttu á land sinn farar blóma. Africam nam vid honum væma, og villdi hann þar alldrei kæma.

71. Hertíinn og hardnefkiurnar huldu velldi: megtugur herra af miklu valldi, mannafiollda og nógu gialldi.

72. Otal búda uppreis þá í ymsum flockum. Þann var ótta einn ad flockva, ecki mundi landid hrockva.

73. Feck um sídir feingid pláts sá fyrna grúi. Enn hvad þad mælast mundu vegir, mier þad ecki Bókinn segir.

74. Milldings tialld í midiu stód hid megtar dýra. Mátti siá þar meingid klára margann dropa Freyu tára.

75. Liek um tialldid loginn raudur lægis tundra, eins og þegar elldibrandar inní báli reystir standa.

76. Sióla Brædur silfri hladnar silki búdir hofdu Kóngs á hægri sídu, og hielldust þar med lidinu fríðu.

77. Tyggi sendi tólf menn heim, sá tryggdum fargar, Clarelii Kóngs til borgar. Kynna skulu þeir efni sorgar;

78. Þeir skulu inna ad Ammon herrann Asia láda Clarelio Kongi þióda konu Hedins giori bióda.

79. Elnnig megi illskumadurinn Ulfar Sterki hleypa út á orrustu morku, afrek sýna, þrótt og horku;

80. Annars vilie hann Odlings borg í elldi brenna, og alldrei stríði láta linna, landid allt um sídir vinna.

81. Sendir fóru sagdir Dólar sínar leidir; hollu Sióla hitta nádu; hiernærst Kongi eyrindinn tiádu.

82. Eingi gat þad íta sed, hann yrdi hræddur, Herra ágiætur,

ur, elli saddur, illa þó nú væri stad-
dur.

83. Af því nærsta óvart kom sú
orrustann bráda; mest adsókti meina
fæda; Menn þó bidu hanns adkvæda.

84. Odlíng mælti: innid Herra
Austur ríkia: Eg mun koma med elli
bleika óskelfdur til hilldar leika.

85. Itar sendir Ammon fundu,
og inntu í tómi eyrindis lók, enn upp-
hófst Gríma, endast skal her líka Ríma.

86. Falid býdur þýsi þunds í þag-
nar inni; því skal læsa þrætu ronnum,
þrotid er vín á Sigtýrs konnum.

Fimta

# Ríima.

1. Vindar ymu vilia á tal vík-
ia af Dysium kvæda; Frestar Grímu í
fræda sal. Fimmtu Rímu hefia skal.

2. Heilög rádi hamíngiann því,
hvad til kvæda verdur. Selld er dád
um sinnu By, og sagnar ládi fríóf-
gun í.

3. Oska feingur endíst litt, uppgangsſamur nærsta, Róms þvi streingur frædid frídt fær ei leingur saman knytt.

4. Mig vill jaga sveit í sess; sanníliga þó eg hafi eckert lag ad yrkia vers. Ulfars Saga gelldur þess.

5. Þó eg leiti optar enn eptir Qváſis Benium. Von ſú heitir seinlig ſenn. Soddann þreytir góda menn.

6. Enn eg meina út ſie blædt undum Qváſis gamla. Þad hefur Steina þiódinn rædt; þvi skal reyna Dverga ſætt.

7. Ef mier nædu Austra klíd, ættir Dverga ſenda; Mannſaungs Rædum leggdist lid, lika kvædum brygdí vid.

8, Vellta minna vill þvi þrátt, Vestra lids af hendi, Od skal spinna á annann hátt, aptur finna Søgunnar þátt.

9. Þar var adur þundar vín þrotid á Vidris konnu; Itar hádu eyrindin brýn, og anſvor tiádu Kóngi ſin.

10. Styrir lands, ſem orkar ódt, ad ſier lidi ſafnar. Til Stóla

rañs

ranns þar sókti Drótt saman í krans
þá heila nótt.

11. Skalf úr ædi hollinn há af
hvellum Lúdra gángi; hugsa, stædi,
meingid má, miónm prædi Borginn á.

12. Vidbúnadur vopna gný vakti
driúgum þessi. Hver var madur orru-
stu í altíadur lands um bý.

13. Dagurinn frídur dimmu brá
Drauma gamni Seggia. Hilmir rídur
hollu frá, hanns og lídur allur þá.

14. Heyra mundi hróp og koll,
þar her óvægur þusti, stáls í fundi
vígs um voll. Vid þad stundi iord-
inn oll.

15. Þusund hafdi Tyggi tals tut-
tugu rett og átta. Eingi tafdi ullur
sals; Orrustu krafdi fylli vals.

16. Þar var fyrrstur fyrir á hiall
Fylkir Austur landa, hanns og bistur her
Giorvall, harla listur geirs í svall.

17. Pláts á ládi vígs þar var
bldt, sem herinn þurfti. Sídann tiád-
ir Siólar þar settu bádir Fylkíngar.

18. Pæcktu stærri undur enn, ef
so verda mætti, ad bæru hærri

 hluta

hluta senn hálfu færri Borgar menn.

19. Hiernærst var um herinn þeytt hornid, eitt ad ødru. Sídann þar feck sveitinn greidt Svidris skar úr fylsnum leidt.

20. Styriølld dimma høfst þar hørd, hrottar mættu røndum. Var so grimm um vída jørd vopna Rimma alldrei giord.

21. Hverutveggi hnígur her hópum samann á grundu. Spióts í hreggi hrottinn ber holld og leggi sundur sker.

22. Lands þó fleira fellur lid. Feck þad Ulfár líta; Hvergi eyra hann nam vid, hestinn keira vígs um mid.

23. Hvar mun falur heimsins rád hafa á slíkum manni? Rendi Halur hesti um lád hardt, sem Valur eptir bráð.

24. Ymist lagdi eda hió, eins med høndum baadum; Sára flagdi svipt:st ró, senn ad bragdi margur dó.

25. Bædi lóma hauduriun hanns hulldi blód til axla; Ordstýr hliómar afreks manns allt um tómid veralldar ranns.

26. Grímur Prúdi hvassann hior
hardt af megni reiddi; Hárs um brúdi
fleins í for fákinn knúdi herjann snor.

27. Eins og savdum ylgur snar
eyddi Kóngsins monnum. Vals af kaud-
um kostur var ekks á raudum velli þar.

28. Fylkíng þar og hennar horn
hlaut til baka gánga: J minni varir
málma þorn, medann hiarir heimur forn.

29. Heidinn gram í heliar beck
Harralldur margann selldi. Báda arma
beint á reck blódid varma litad feck.

30. Hetiann lætur hvassañ geir
hátt í glymia rondum. Madur ágiætur
margur deyr, minnstar bætur feingu þeir.

31. Herbrand lýtur Hollda fall.
hann var Ammons bródir. Grand med
týta geymi svall giordi flýta jó um hiall.

32. Hertoginn moti roskum reid
kunni snáka dýnu; hæfdi spiótid hiors
ad meid. Hinn þar klótid sundur sneid.

33. Harralldur bærdi hvassa skálm,
hvergi seinn til vfga, sídann færdi hañs
í hiálm, hrottinn særdi biartann málm.

34. Hiorinn hendti brúna bý
og búkinn allann gegnum. Sitt



líf

Ilf endti so med því, sodli leiddi hög-
gid í.

35. Síns þá kunni frænda fall
Fenicanus líta, stáls ad runni reid um
hiall, í rænu grunni heiptinn svall.

36. Seims ad lundi sióli stór sinni
burstaung lagdi. Hendina undir fíkann
fór; forsum dundi benja siór.

37. Eyddist fridur Haralldz hrausi,
hrottinn grímu sióla: hvergi midur hau-
sinn klauf, í herdar nidur búkinn rauf.

38. Ammons hefur hlýra tvo Ha-
ralldur svipta lísi; Heidnum gefur hög-
ginn so, hel sem krefur, margann vo.

39. Látum merkann hreysti hal
Högna vodum spilla. Ulfars sterka Odds
í sal, afreks verka, geta skal.

40. Einatt hleypti Ullur fiár, al-
lann herinn gegnum; mörgum steypti
hreysti hnár, haudrid gleipti benja tár.

41. Hió í sundur hesta og menn
hann ad endilaungu. Traudt á fundum
sverda senn soddann undur litu menn.

42. Ad þeim frekir ótti ser, Asi-
atisku mönnum: Fylking hrekur fleina
grer, flýa tekur Ammons her.

43.

43. Valentinus sem þad sá, Sverd úr skeidum leiddi, Hesti sínum hertogiñ sá hleypti sínum vollinn á.

44. Jardar ilia urnis þund Ulfar Sterki mætti: Hamingiu vilie og heliar stund helld eg skilie þeirra fund.

45. Naumurinn hardi rett í stad ryckti noktu sverdi; skialldar bardid skýfdi þad, skadi vard þar lítill ad.

46. Aptur meir hann Ulfar hió, egginn hofudid skeñdi; Búkinn geir ad bellti smó, brodda freyr af sári dó.

47. Flock sá kauda vopnum ver, Virgilius á hialli, Bródur dauda sinn þá sier, sverds til nauda hleypa fer.

48. Freyr red stefna freyu gráts, fram̃ ad Ulfari Sterka: Hríd vill efna ullar báts, eirnig hefna frænda láts.

49. Vomurinn reiddi vígs ad niord bøndinn unda rauda. Laufinu sneyddi Leiknis jord, lærid meiddi egginn hord.

50. Gefnar tára geymir vann gill-da skeinu þiggia: Odum bára benja rañ, bjód vid sára mælti hann.

51. Hafdu kvistur geirs um grund, gát á lífi þínu. Miec þú

 bistur

bistur málms vid fund, manna fyrr-
stur veittir und.

52. Hetiann merka hers ad vord
hraustann bæsing reiddi, hanns í sterka
hausz umgiord, hior nam lerka brúna
jord.

53. Brandurinn sundrar búkinn,
haus, black og sodul í einu. Stáls úr
undu straumur gaus, stad í grundu hio-
rinn kaus.

54. Sídann mætur budlúngs bor
brytiar fólk um velldi. Margur lætur
líf og fior, laungum grætur sollid spior.

55. Hreysti skaptur herrann ód,
hveria Fylking gegnum; fram̃ og apt-
ur Gauts med glód, geira raptur Val-
kost hlód.

56. Yfirgnæfir hreystinn hanns
heimsins Kempur allar. Losid hæfir mik-
la manns margfolld æfi verälldar ranns.

57. Megnann senn þau miklu
hogg morgum ótta fluttu: svait nam
renna sverds úr dogg, som var enn
hanns hreysti rogg.

58. Nemund getur líta lid
lángt er komid á flótta, mein-
gid

gid hvetur ad halldast vid, og herda betur vopna klid.

59. Sidann stýfur giarda glad, geyst um herinn renndi, flockum klífur fólk í spad, fylkíng rífur merkium ad.

60. Málms í róti merkis-let manninn daudann falla: Tólf af spioti fleygdi fet, fleins í móti undinn gret.

61. Þetta künni Kóngur siá Clavelius hinn mikli; Sodla hlunni hleypti sá hiors ad runni, og sverdi brá.

62. Fiördíng tyggia hvassi hiör hárs af tialldi skýfdi. Sár nam þiggia þorna bor, þad mun hyggia laun óspor.

63. Alma þundur eggia nad, upp þar heidinn reiddi: Klauf í sündur Kónginn þad, Kialars tundur, sodli ad.

64. Eckils handur yfirmanns, elli leifum mætti; vordur daudur liggur lands, lagar raudur dreirinn hanns.

65. Otta flugur nadda nids nockurn stans þar giordu: Briótum dugur dyrfdist frids, dvínar hugur Borgar lids.

66. Kóngs ad merki follnu fer fólkid undann snúa: Þar í ver-

 ki

ki eggia er, Ulfar Sterki þetta
sier.

67. Hrotta spennir hestinn slær,
heidinn flock í gegnum; Bædi senn hañ
britiad fær blacka og menn á hendur
tvær.

68. Rosid sundur fylkíng feck,
frañ ad Kóngsins merki: Mækia þun-
dur margur geck, málms vid undur
hels á beck.

69. Lagdi í gegnum merkis mann
millidings kundur spióti; lángt af meg-
ni, frægd sá fann, fleygdi þegni daud-
um hann.

70. Falla merki sitt þá sier Sióli
heidíngianna; Yrs til verka annar sier,
Ulfar Sterka hitta fer.

71. Hanns hid rauda Rognis
bál, Rínar lag ad heiti, morgum dauda
skeinckti skál, í skiptum nauda bitra
stál.

72. Heidinn ræsir sem nú sá,
sinnar dóttur bana, sára glæsi sínum
brá, sókn þar æsir velli á.

73. Egginn reyndi Odins tiallð,
af því þridiúng klippti; hvergi
skein-

skeindt hilldar falld, hiorinn greindi spióts á valld.

74. Sylfa borinn Grams í hóst silldann mæki færdi; risti hiorinn brín-gu og brióst, beitsla knorinn sundur hióst.

75. Daudur nidur datt vid kíf döglíng þar med essi; Flakti kvidur, slúdi líf, fellu ydur Hárs á víf.

76. Fyrr þar branda fúndi á, sýsti stórt ad vinna: liggur anda elltur frá, Austur landa Kóngur sá.

77. Trúi eg so hversi hamingia manns, heims úr volltum stóli. Helldu ersi, af átu hanns og unda skersi vargar lands.

78. Miog ángrádar eckiur þrá, er áttu um sárt ad binda, Asia tiáda og Africa, eptir báda Kónga þá.

79. Látum einatt londinn tvenn, leingi Kónga sakna. Hitt skal greina, heidnir menn hyggia reyna flótta enn.

80. Remunds kraptur Herians hión hradt til varnar krafdi; fram og aptur líkt sem lión, lausa raptur, þusti um frón.

81. A lítillri stundu feck hann fellt simtlu vaska dreingi, menn í sundur midia skellt, úr margri undu blódi hellt.

82. Grímur sjer, hvar fleina freyr, fólkid britiar hrønnum; Randaver med reiddann geir, ad Remund fer, og hittast þeir.

83. Niflúngs kundur nedannverdt nikurs tialldid sneyddi; Vidris tundur búkinn bert, beit í sundur rett um þvert.

84. Remund hnie í hlutum tveim, Hánga týrs á brúdi: Styrs vid hlie og sverda seim úr sogunni stie og þessum heim.

85. Kappi merkur einn sá er eptir Köngs af hlýrum, Hróar serkur flýa fer, sundu sterkur hugurinn þver.

86. Allt á flótta leggur lid, lífs sem eptir hiardi; Feigdar þrótt ad sældist bid, sætur ótta kepptust vid.

87. Ofann ad sió og út á knor Olldinn heidna flúdi; segl upp dróu, af silki gior, sündur hióu streingi í vor.

88. Hárs ei veidir Hollðum af herma meir ad sinni; sigldu skeidir, so sem gaf, sínar leidir út á haf.

89. Hlýrar foru í heidinn tiolld, sem hinir eptir skildu, þar sem vóru þeigi tolld, þau hin storu Oturs giolld.

90. Gefnar drifta gnótt vid hlie, græddi marga skeinu. Adrir svipta saman fe, sumir skipta herfánge.

91. Brædur giæddu glódum straums giorvallt landsins meingi; Sára græddu á dýnum draums, dauda klæddu holldi Raums.

92. Eptir nauda orrustu senn, ad sier ríkid tóku; Kóngsins dauda einnig enn erfid rauda drecka menn.

93. Upp nam rísa dryckiann dátt, dans og gaman-rædur. Hlýrar prísa Haralldz mátt, hanns og lýsa frægdum þrátt.

94. Spurdu brædur, linna lands, lofn hvert eingi væri, sem á stædi hugur hanns? Hrafna fædir gaf til ans.

95. Saxa drótt sá yfir er, Agnar Kóngur heitir. Honum Þróttur hreysti lier, hann á dóttur eina sier.

96. Þad Magthilldur heitir flióð, hveriu fegra vísi. Kóngur trylldur Týrs med glóð, tofrum fylldur britiar þióð.

97. Einn á bródur Odlíng sier, Onundur frídi heitir; Eingi lódins ellda ver, unda glódir frægri ber.

98. Hefur sá leingi stríds vid styr stillis varid ríki, þann og feingid herjans hyr, hittist eingi slíkur fyrr.

99. Kys fyrir Brandi þessum þann, þegn sem vill í stríði: A unni og landi afteks mann, ósigrandi reynist hann.

100. Líka Tyggi launson á, Lydir Jámund nefna. Varla byggir vedra krá, vopna yggur frægri enn sá.

101. Hvergi þiettu hogginn því hæfa garpinn kunna; hleypur lettur loptid í, líkt sem spretti elldíng ný.

102. Bad eg ádur audar hlín, Agnar Kong mier gipta; Enn hann smádi eyrindinn mín, andsvor tiádi varla fín.

103. Sleit þar fund um þorna gná, þordi eg ei ad beriast; Segl upp undum so vid rá, Saxa grundu helldum frá.

104. Hef eg ei neina seima sól sídann gyrnst á æfi; mey þá eina hrærir hiól, hugarins leyna geds um ból.

105. Ull vid mækia Ulfar kvad: Agnar skulum vid finna, strax á lækia gódum glad, gøfugt sækia víf í stad.

106. Hinn nam greina: Heimsku ráð helld eg eitt þad mesta, sig ad meina silkiláð, í sóknum fleina geta náð.

107. Önundar hendur ydar lid á augabragdi fella. Hann er kendur ad hreysti sid; honum stendur eingi vid.

108. Kóngs son mælir: Kalla eg þig, Kappann Önund dára: Hvar hann stælir hrotta rig, hvergi fælir Kempann mig.

109. Ei so feigir allir vier, álaga vopni mætum; þó hann eigi afl ad sier, eins og segir hugurinn þier.

110. Innann stundar Ása frids, Ullar Mønnum safna; Sveit til fundar sára svids, sex þúsundir hofdu lids.

111. Skatnar gilldu skip og fans skiótt til ferdar biuggu, Hlýrar-vill-

du

du í hrídir brands; Enn Haralldur skylldi giæta lands.

112. Fóru bragnar firrdir pín framm til skipa sinna. Vindi fagnar vodinn stn. Vid þad þagnar Rímann mín.

113. Helldur sóma hvidur þers hátta skiptum tegri: selldur er lióma fridur fiors, felldur góma klidur hiors.

## Siötta
# Ríma.

I. Litt þó blædi Blindvids slæði bragarins inni, Sagann bædi og Baleigs Minni; byriast Kvædi í Siötta sinni,

2. Akrar lióda orda gróda eingann færa; Mælsku fróda traudum tæra, ne túngu móda góm frá bæra

3. Minnid brestur; Mærdar lestur mun þess gialda. Kvæda frestur kann því valda, karl er sterstur bú ad halda.

4. Þarf til merkur Kialars úr kverkum, kólgu anda, af mønnum sterkum mærdir vanda og manndóms verkum þeirra handa.

5. Sidst mier lætur sónar bætur Svolnis greida; Daga og nætur efnum eyda, adrar þrætur, Sigtyrs veida.

6. Þad mier velldur, þess ad gelldur þátturinn frídi. Eg vil, felldur ødrum lydi, annara helldur skállda bydi.

7. Skil eg valla skuli þó falla skálldum sínum Heimsku spiall úr munni mínum, mærdar Salla blanda sínum.

8. Mun samt standa mier til handa, mærdir spinna, Saxa landa sveitir sinna, sóknir branda þeirra og hinna.

9. Brands af saungum bordar laungum bragarins smidur; fer því aungvum manni midur, máls í gaungum lióda klidur.

10. Venta lautum vigra autt vordinn góma: Vier þess gátum, virdar skióma vendu á bátum sunds til lióma.

11. Lýsti fagur flóda dagur fríða stafna: Ellri óbagur bylgiu hrafna, byriar slagur úr munni hafna.

12. Ellda vinur varla linur í bodunum glumdi; þiliann dynur,

raun-

raunginn rumdi, ráinn ſtinur, ſkipið þrumdi.

13. Móðir ránga gotar gánga geyſt úr œði, furðu lánga leið um grœ-ði, linar ei ſtránga þeirra mœði.

14. Saxland viður ſkerdi ſkriður ſkeria hialla; Tries þar niður falldar falla, flóðs ſem klidur heyrdiſt valla.

15. Skipinn binda, bryggiur myn-da briótar ſeima; Hialls af linda á landið ſveima, lægis hinda ſumir gey-ma.

16. Ulfar greinir: Orlog reyni eyrindinn kynna; búiſt óſeinir bor qvað linna, bræður einir Kónginn finna.

17. Vort ſkal býða fólkið fríða fróu við laxa, meðann ríða Alfar axa, eyrindinn þýða Kóngi Saxa.

18. Fiellu ræður, fóru bræður fram til borgar. Sioli ſkiæður Saxa torgar ſat við ſlæður ſtaupa ſorgar.

19. Komiñ til hanns var múgur manns, ſo mettuſt hallir: Samann í krans þar ſátu ſniallir, Sióli lands og bodsmenn allir,

20. Vorinn var mönnum boðs í rönnum biór ónaumur: Skalf á könnum skála straúmur, skemti grönnum streingia glaumur.

21. Nú skal minnast hlýra hinna hátturinn rýri. Kónginn finna Kaspar dýrir, kvediu inna landa stýri.

22. Ödlíng brádi æru gádi ei sem bæri: spyr med hádi, hvert þær færi? eda hvadann af ládi komnir væri?

23. Ytta eg knör úr Arnar vor, hann Ulfar tiádi, byrs med kior, er blása nádi, í bónords för ad þessu ládi.

24. Þórers nidur oss bad ydur eyrindinn kynna: Haralldur, vidur lautar linná, lióssrar bidur dóttur þinnar.

25. Ansa þundi Ödlíng mundi ellda rínar: Fyrr skulu stundir fiorsins dvína, enn fái eg þeim hundi dóttur mína.

26. Ef giorid ad þreyngia, eyrsindinn leingia og ámálga, ydur skal fleingia sárt og sálga, sídann heingia á verrsta gálga.

27. Adur hier, hann Ulfar tier, sú er mín gáta, Haudurs ver mun lífid láta, og landsins her í sama máta.

28. Happ sú býdur hond, þitt snídur hofud frá búki, Josur, ef stríd-ur stáls í fiúki styriar skrídur ad spilla búki.

29. Líkar tal þar hverigum hal hid heiptar stránga. Ur Odlíngs sal nam Ulfar gánga, eptir hial og rædu lánga.

30. Orva fluga ullar buga Als til sitia: sinna huga seggia vitia, sídst mun duga um kyrrt ad sitia.

31. Pad skal greina, þúngra mei-na Þeingill kenndi; Hilldar reyna vill þvi vendi, virda skeina er Harallдur sendi.

32. Heipt bió undir, hann baud skundi hópar granna, strax á fundi Tyrfings tanna, tólf þúsundir borgar manna.

33. Þier skulud meida þræla lei-da, þeingill sagdi, og þá deyda ódt ad bragdi. Olldinn greida já tillag-di.

34. Huldi pláta herinn káta og blackar skrúdi: Gota láta, grimd þok knúdi, geysa úr máta Thrs á brúdi.

35. Heyrdu brak og horna skvak med hardki stóru: sverda skak, þar Saxar vóru, sier á bak þeir undann fóru.

36. Ad oss rída ótal lýda, Ulfar tiádi, ei skal kvída eggia grádi, eptir býda þeim á ládi.

37. Látum kauda æru auda eyrmdinn fánga: Víst mun snaudann lýd til lánga, ad líta raudann ættartánga.

38. Hinna bidu brædur nidur á brecku iodrum: Hýdinn skridu af skapta nodrum, skatnar ridu hver ad ødrum.

39. Herians velldi aptur elldi Olldinn digra: A þar skelldi vedri vigra, vals tók felldi jord ad sigra.

40. Miog blódþyrsta hlýrar hrista hand-vorn Giúka; sundurrista Darra dúka, digra kvista manna búka.

41. Ad nam gánga Orn þar svánga, er undir myga; æstust strángar

ar Öllður viga, um endilánga hilldar stiga.

42. Ótal felldi öllð um velldi Ulfar Sterki; Hárs með elldi vígs í verki, væna skelldi fróda serki.

43. Tvenna þriá kann sveitinn siá með siónar steinum lopti á, þar hrotta hreinum, herrann brá að vígi einum.

44. Mörg hann skelldi vánga vell-di vals af feriu; Tíu felldi í höggi hveriu hárs með elldi reynir veriu.

45. Fylkis kundur, færði sundur fylkíng alla. Málma fundur, mátti kalla, meiri undur sýndi valla.

46. So sem biorninn sauða börn hann sundrar dreingi. Hreystigiorn hiá hollða meingi hanns mun vörn í minni leingi.

47. Grímur Prúði laungum lúði laufann breiða, drótt til knúði dauð-ans leiða, dors í skrúði menn nam meiða.

48. Kempann slíng í hóp og hríng þar heiðingianna, vals blóð bíng á Sviðris svanna, sig um kríng af búk-um manna.

49. Ascalones eins og lión nam ítum farga; vígs um frón þar felldi marga, frægda þión í gaupnir varga.

50. Elentinus Örn og skúmi átu kærdi; blóds úr rúmi fiør hann færdi, fleins í húmi margann særdi.

51. Godvards hendur ristu rendur á rýta þíngi; naumliga stendur, nær þó spríngi, neinn innlendur hanns jafníngi.

52. Geirúlfs kenna máttu menn þar málma grýdi; Hió í senn og lagdi lýdi. Lifir enn hanns menta prýdi.

53. Ecki spardi Húni hinn hardi heidid meingi: Til heliar bardi hópum dreingi; Hanns því vardi forprís leingi.

54. Eyvinds megni eingi gegn ham elldinn standa: Hiørs vid regn hann reckum granda, roskur þegn til beggia handa.

55. Brúni ód med Berlíngs glód, og bryniur risti: Eingi stód vid hrotta hristi; heidinn þiód því anda misti.

 56.

56. Víkings kraptur valla kaptur virdtist monnum: Fleins gat raptur fæc-kad hronnum fram og aptur heidnum gronnum.

57. Algarius utann frýu orrustu hádi: Sveit í stíu heliar hriádi, hann af tíu einn á ládi.

58. Valebrúnus varga-húnum vei-di bætti: Vígs á túnum morgum mæt-ti manni ólúnum hiors í þætti.

59. Mund Hertoga rönd nam roga í reystu kísi: Gaura vogar gran-da lísi, Gauts med loga týrs á vísi.

60. Villifer, sem úlfur er, í ulla hiordu. Vitni ber hanns hreysti hordu hræ-kester á valþíngs jordu.

61. Hetiann fróda í valnum vód, til vígs ótraudur. Bædi flódi hiors um haudur Hauks á slódum dreyrinn raudur.

62. Randver þordi þunds á stor-di þrætur eiga: Sverds í mordi sveit giorir feiga, sosem horfdi, runnur veiga.

63. Vemunds stránga var fram-gánga vokur nærsta: Hanns fyrir tán-ga hilldar glærsta, hel nam fánga sveitin dæsta.

64. Sextán senn þeir miklu meñ í megnu kífi stódu enn á yggiar vísi. Eining þrenn eg bid þeim hlífi!

65. Hiors á fundi fallnar mundu í feigdar rauna sio þúsundir Þýdskra granna. Þoktu grundir búkar manna.

66. Brædra þiód þar búum stód í branda hvidur. Lúdra hliód og hrotta klidur heyrdi um slód ad siónum nidur.

67. Þángad vódu virdar fródir vogs frá innu, þar sem stódu vígs ad vinnu, val þeir hlódu blinds á kvinnu.

68. Christinn drótt med ædi ódt til orrustu lagdi. Hel feck skiótt af hlífa flagdi herfólk liótt ad skoñu bragdi.

69. Ulfars betsta handvorn hvesta hlífdi aungvu. Menn og hesta hyrdir slaungu hió þar flesta ad endilaungu.

70. Varga sedur, heidnum hledur, hristir geira. Alldrei skedur lands um leira lausa vedur annad meira.

71. Heidnir kanna heliar ranna hárs á vísi. Eingi spanna komst úr kísi Kóngsins manna burt med lísi.

72. Fátt ad kalla kraup, á hialli hid Christná meingi; Manna fall og málma geingi mun þó valla býda leingi.

73. Vard sá endi af Vísis hendi vigra regna: Tíu sendi þúsund þegna þeingill keñdi í orrustu megna.

74. Þeir skulu finna seggi svinna, og sóknir herda, lidsmenn hinna líka verda, lyktir vinna á þrætum sverda.

75. Allt þad hafdi, er þorf krafdi, olldinn trыllda: Brynium vafdi búka gillda, búast ei tafdi strax til Hillda.

76. Var ósvísa sveitinn sízha í sóknum hiorva gaflok, knísa, axir, orvar, allar hlísar úr stáli giorvar.

77. Kaudar emia, og sig gremia eins og vargar, hyggiast fremia frægdir margar, sáka lemia hinum til biargar.

78. Þángad skiædur her hard-rædur hestum skelldi, sem þeir brædur vóru á velldi, og vígs um slædur ná-rinn felldi.

79. Fallid líta riódar rýta Næ-sis meingi; Fridinn slíta, lítt beid lein-gi, listi flýta hefndum dreingi.

80. Ulfar tier, þá sveit hann sier, ad sóknum gánga: A velli hier skal ví-dum fánga vidtekter sú olldinn strán-ga.

81. Fyrrstur manna, fleins þar tanna framdist ýma, vakti hranna hyr-dir bríma Hedins svanna í annann tíma.

82. Hanns vann kraptur hreysti skaptur ad heidnum skrúfa; Fleins gio-rir raptur fylkíng riúfa, fram og apt-ur búka kliúfa.

83. Hendur og fætur herrann mæ-tur hió af þegnum; hiermed lætur hior-útdregnum hiarta rætur lagt í gegnum.

84. Margann skrogg hanns mik-lu hogg af megni straungu skeindu glegg, sem skipti slaungu, og skýfdu snogg ad endilaungu.

85. Vor hió málma harda hiálma og heila pennur; hier giorir jálma, hanns þá tennur hlífinn fálmar ein sem ennur.

86. Tolunnar fliótu fyrr mun hlióta finnast endi, enn til róta alla kendi eydda þrióta hanns af hendi.

87. Vort medann fetrid veralldar tetrid varir hid sterka, heims um fletid hagleiks merka hanns mun getid snilldar verka.

88. Blóds á eingi fall trúi eg feingi fólkid slísna; ótal dreingi olldinn Christna enn feck leingi sundur rístna.

89. Brædur fá so heidna hriá í heliar naudir, þar til sáu af sárum raudir, Saxar láu allir daudir.

90. Kialars biálfa Christinna Alfa kunni skunda finnta hálf í þrætu þundar þúsund siálf til Christi funda.

91. Hundrud þriú á herjans frú beid helid kallda, ad auki nú þess ádur talda, olldinn sú til Guds nam hallda.

92. Tólf med lísi thrs á vísi tolduft þegna hundrud kísi kolldu ad gegna, Kóngs ad svísi orrustann megna.

93. Hlýrar sár nie hilldar tár ei hefdu feingid; geds um krár á mætu meingi mædinn gár, so lá vid spreingi.

94. Hinn fór snaudur herinn dau-dur hárs ad rennum; Láu um haud-ur lands af mennum líkinn raudu í stórum hrennum.

95. Valurinn alla huldi hialla heidíngianna: Gaupnir valla, Golnis svanna geymdu, ad kalla, búka manna.

96. Getur sagann glegt í brag, ad giora þeigi nidurlag því meira meigi málma slag á einum degi.

97. Munum dags ad morgni strax og meingid svinna Kónginn Saxa siálfann finna med sára lax, nam Ulf-ar inna.

98. Mun Önundur og Jámund-ur ecki heima. Klífs skal tundur kau-da eyma. Kann þaug undur Saxa dreyma.

99. Lióst þeis giallda lundar skiall-da leingur enn skemur: á mitt valld ef Agnar kemur, æfitialld hanns bálid nemur.

100. Unnar. ad skrafi enda gaf Þar ullur funa, níu af hafi herskip bruna; Hiálma skafi má því una.

101. Ad landi venda, og hafnir henda hlunna vagnar, kátir lenda, komu bragnar. Kvedinn á enda Rímann þagnar.

102. Fundíngs æda undum blæda einatt leidist. Grundinn kvæda blunda beidist, bundinn ræda sundur greidist.

Siøunda

# Ríma.

1. Ask skal hella Zerians skálhimins stólpa flædi. Þøgn ad fella þyckir mál, þeim sem elska kvædi.

2. Efnid lánga eg ad mier tók, ei var kiænskann betri. Seint vill ganga á søgunnar bók. Senn er lokid vetri.

3. Ergist bagann, annad fer efni ad Kvæda ranni; enda er sagann ervid mier, Eddulausum manni.

4. Þó bæri eg ment og mærdarlag miúkt til kvæda funda; ecki er hent ad yrkia brag, þeim annad hafa ad stunda.

5. Líka í skrafi miøg er mælt, mun eg á því stínga, sialldann hafi Skatnar hælt skálldum Vestfirdínga.

6. Víst hafa litt þeir vestra hier, vænum kvædum lýsa. Það er nytt, ef frá þeim fer fallega kvedinn vísa.

7. Hefur hier lyda hials um rann hallad kvæda bramli, miúkar sídann mærdir spann Magnús Jóns son gamli.

8. Mier því semur um sagnar rann søgunnar flytia frædi; fyrrst alldrei kemur aptur hann, ad yrkia nockurt kvædi.

9. Mun eg ei leingur mærdar spar Mannsaung þenna bióda. Siøuuda geingur frosta far fram úr naustí lióda.

10. Fyrr nam spialla frægda frá, firdar slagid endtu. Hvíld var ad kalla orrusta á. Itar komnir lendtu.

11. Akker fá ad gá til grunns, greidt vid hafnar tánga; Mátti siá frá hestum hlunns hermenn marga gánga.

10. Ullar vóru orme skers unda gyrdtir skessum. Tveir þar fóru forsíngiar hers fyrir hópnum þessum.

13. Annar biartur, ásiáligur, oflugur geymir Nýta. Hinn var

svar-

svartur og harla digur, hár sem ítroll ad líta.

14. Einga dvøl þar átti teitølld vid byrtings ranna. Var ad tolu hin vaska sveit vel fim̃ þúsund manna.

15. Þángad ódu Sílldar sals sunnu blódar þrifnir, þar sem stódu á velli vals virdar blódi drifnir.

16. Hers hinn frídi forkngenn feck so rædu spunnid: Hverier í strídi hafa menn herverk soddann unnid?

17. Hver hefur starfad holldum grand, hradur til slíkra efna, vort fordiarfad Fodurland? Fús skal eg þess hefna.

18. Svar til hneygia hinir sliett hønum, er skialsins krafdi, hier til segia satt og riett, sosem ordid hafdi.

19. Inn þitt heiti, Ulfar tier, eingann leit eg fegri orva hreyti annann þier edur tíguglegri.

20. Ønund frída mig þú mátt meidir kalla vigra, formann lýda einnig átt annann Jámund Digra.

21. Siola kundur Saxa-lands ſeggurinn er hinn gilldi. Odins tunz dur Ullur brands einatt ber ad hilldi.

22. Vier hofum eydt vid odda frá ollu Húna velldi, Siola deydt og ſyni hans þriá ſárs med raudum elldi.

23. Ræntum Húna hyrdſlur ſeim, hlódum ſkeidir allar; ſídann núna hiellz dum heim heſtum ſkeria vallar.

24. Vídt um pletinn veralldar ſkín víſt hefur olldinn ſvinna einatt getid, Ulfar, þín og afreksverka þinna.

25. Lions um veg, ſem Laxa kór, lof þú ber yfir alla. Skadi er miog og miſsir ſtór, menn ef ſlíkir falla.

26. Onundur eptir ordinn kunn, Orn ſá laungum ſaddi, hornid ſetti ſier á munn, ſveit til orruſtu kvaddi.

27. Fúſt ad ſtíma fálka ſker ſlein úr ſkorum hrakti. I þridia tíma heiz dinn her. Hogna dóttur vakti.

28. Chriſtnir áttu afreksmenn enn ad mæta kífi. Líka máttu ſumir ſenn ſínu tapa lífi.

29. Skógs úr hvopti Grydur grá
gusadi blódi hreinu. Mörg á lopti,
mátti siá, málma hogg í einu.

30. Gneysta hlífa flutti um frón
steina bilurinn styrdi; Örva drífa íta
sión allann himininn byrgdi.

31. Mílu hálfa horna koll hvella
bresti jóku: Blinds nam skiálfa bediann
oll, biorginn undir tóku.

32. Af lidsmun stórum driúgum
dimt drambar þiódinn slísna: Heidnir
vóru holldar fim hvern um einn þann
Christna.

33. Brynia vætti, brautir vals,
Berlíngs tiolldum svipti. Strax er
hætti fluginu fals, fólkid sverdum lypti.

34. Hogg-orrustu hádi þiód, hor-
sin fridarins gladum: Hlífar brustu,
hrundi blód, heitt, úr vormum ædum.

35. Ulfar fyrrstur framdi víg,
foríngi Christnra manna: Herrañ listur
heliar stíg heidna lætur kanna.

36. Ullur veriu ǽddi dýr allann
herinn í gegnum. J hoggi hveriu tior-
gu týr tíu steypti þegnum.

37. Siálf þad vottar Sagann skír, sonn í ollum greinum, á lopti hrottar þóktu þrír, þegar hann vo med einum.

38. Lýdum hiá hanns linna iørd lánga vaktí rimu, líkt ad siá, sem lión vid hiord leikur af afli grimmu.

39. Fals þar hrístir fylking rauf, fram og aptur laungum; Hiálma risti, hausa klauf, hlífdi manni aungvum.

40. Otal kaudum vísa vann veg til heliar ranna; kastar daudum heidnum hann hverium ofan á annann.

41. Vals þar kostu á velli hlód, vegs um mílu hálfa. Sára rostu olldinn ód allt í midia kálfa.

42. Hoggvinn sundur sveitinn lá samann vid dreyra fiørdu. Soddann undur alldrei sá auga manns á jordu.

43. Slíkur lifnar bála blinds bor í landi aungvu, fyrr mun rifna ræfur vinds rett ad endilaungu.

44. Onundur styggur sínar sier sveitir tapa lífi; Fallinn liggur hanns af her helstinn oll í kífi.

45. Frænings vallar freyr um slód fram̃ ad Christnum vendi. Odins hallar glærsta glód garpurinn bar í hendi.

46. Þegar ryckir þessum hiör þegn af bistu lyndi, var sem hrycki elldíng er undann hvössum vindi.

47. Kiænn nam̃ bauga bor vid stál bædi höggva og leggia, Týrs so lauga bitra bál í blódi Christnra seggia.

48. Eins og vargur álma bor ótal felldi manna. Christinn margur feigdar sor sliótt þar mátti kanna.

49. Skiótt nam̃ falla múgi man̄s midt í heliu opna. Líki valla hefur hanns hittst ad skiptum vopna.

50. Hvar sem hnikar hilldar funds hrotta bar til skeinu, stiornur blika þóktu-þunds þriár á lopti í einu.

51. Unda flód úr ædum manns einatt lætur hrynia. Hverki stód fyrir hoggum hanns hiálmur, giord nie brynia.

52. Eins um velldi og örn ad siá á var flugi beinuz jafnann felldi þrenna þriá þegn í hoggi einu.

53. Freyu harma hyrdi þann helst má roskvann kalla. Hanns um arma rióda rann rauda blódid alla.

54. Olldinn kiks hin Christna deyr, kiorinn til himna ranna. Eptir líss, enn ecki meir, eitt var hundrad manna.

55. Alldrei hætti Onundur þar ydiu járna sinni. Ulfari mætti madur snar í midri fylkíngunni.

50. Þegninn fyrri sára sox skíst þar villdi þyggia; þvi vard fyrri hann til hoggs, helldur enn arfi Tyggia.

57. Ol þá gruni útlendíngs iñid hyggiu lióssa, ad sveigir muni sára stíngs sig fyrir vopni kióssa.

58. Fordast villdi þickinn þann þegn af Onunds hendi; orku gilldi afreks mann undir hoggid vendi.

59. A auga bragdi ort í stad ódt af mætti stridum sterka lagdi arma ad Onunds bádum sídum.

60. Merkia hin snialla mátti sveit mun á beggia færi: Onundur falla á haudrid hlaut, hann þó frægur væri.

61. Dró í bondinn dýrann reck, der hann rænti sínum; rómu vondinn riodann feck Randver frænda sínum.

62. Freyr þar vidur ellda áls Onund bundinn skilldi, og í hvidur óska báls aptur skunda villdi.

63. Ótal vomum æsi bann afladi helid grimma. Hanns vid komu vaxa vann vigra jelid dimma.

64. Olld tók renna orku slió undan senn hin blauda; sim því tvenna í hoggi hió hann þar menn til dauda.

65. Málma raptur hel med hiör heidnum grúa sendi; Hanns því kraptur orku ör alldrei lúa kendi.

66. Hann so vigri; hvössum brá herdir ótta seggia; Jámund Digri sína sá sveit á flótta leggia.

67. Hrottinn kallar heidna á, hardt sem undann kieppa. Annad valla var ad siá, enn vitinu mundi hann sleppa.

68. Fólk þarf valla, fólinn tier, flóttann snauda reyna; mitt skal snialla vigra ver vopn til dauda skeina.

69. Kóngs son brádur ad honum
óð, og so tier vid kauda: Grætur áð-
ur undinn rióð, aulinn, þier til dau-
ða.

70. Jofurs til nidia Jámund
hió járna þar med skessu; Unda Gyð-
ia ei tók þó af honum par í þessu.

71. Hetiann svinn ad svortum
glóp sárs brá módur færi. Liettur hiñ
í loptid hlióp, líkt sem ódur væri.

72. Hann ad riettum hermanns
síd hátt frá sprángar ládi; hvergi
liettum hyriar nid, hoggid stránga ná-
di.

73. Gaur let falla, hlíf sá hrauf,
hogginn skár á tyggia: Skiolldinn all-
ann egginn klauf; Ulfar sár nam þyg-
gia.

74. Annad hogg hiá Odlíngs nid
enn feck giætir láda: Egginn togg í
okla lid af honum fætur báda.

75. Jnnt er, hradt um orrustu
voll unda geingi flædi; Jámund datt,
enn jord skálf oll, jafnt sem hjengi á
brædi.

76. Þegar feingid Þoli eg hel, Þegn nam Digri glósa, Þier hefur geingid þetta vel; þú mátt sigri hrósa.

77. Hinn gaf tiádur aptur akt, Jëpu svarar kundi: Þier var ádur þetta sagt, þad so fara mundi.

78. Elfs so dró til lykta skeid liótum hyrdi sverda: Ulfar hió, og af honum sneid alla byrdi herda.

79. Hiors vid svallid heidnum brá, hugs tók midid ædra; Enda fallid og í strá allt var lidid brædra.

80. Saxa hræddu sinnu torg sverda órar hordu: Þegar æddu ad Þeingils borg, þeir sem tóra giordu.

81. Spióts úr sári sáir af þeim ferdir lögdu brýnar. Allir sárir Odling heim ófarir sögdu sínar;

82. Jámund keirdi í heliu hier hlífar kerinn raudur; Bondum reirdur Önundur er; allur herinn daudur.

83. Gylfi ei stærri friettir feck fyrr um daga kallda; Hanns því nærri hiarta geck harma sagan tallda.

84. Kóngur í rimmu kallar menn kífs til hverá stíu; Sió-

li

li grimmur safnar enn saman her ad nýu.

85. Jofur af ædi eggiar þióð orrustu snarpa stefna; síðst bauð stædi sveit vid rióð, sinna garpa hefna.

86. Hest um grundir Hillmir vann harla greidt ad keira. Þriár þúsundir hafdi hann, hundrad eitt þó meira.

87. Hefndar fædda heiptinn kolld hótadi ollum dauda. Járnum klædda kepptist olld kífs á vollu rauda.

88. Þessu venda fyrrst skal frá, og finna barma móda. Sókn red enda. Seggir slá sárs med harma rióda.

89. Ennis spreingur undir gat, ódt med hondum hafinn. Ulfar geingur ad, þar sat Onundur bondum vafinn.

90. Mælti Tyggi huldur hlíf: heipt vor giorvoll linni; Onundur þiggi af oss líf, er þad mier í sinni.

91. Innti Grímur andsvor bráð, af kvad hliótast vanda: Hamars med hmu, helld eg ráð, honum sem fliótarst granda.

92. Er þad hneysa ófrid! fliót oss, tier borinn skiallda; Þvi skal

leysa lausa niót, og láta hann fiorihallda.

93. Ei vil eg nein mig olldinn kunn ad þvk fundinn sneydi, ad eg so fleina fręgann runn fiotrum bundinn deydi.

94. Sverda kyrr þar reyst af rióð, rádfærkinginn tafdi. Þeir vissu ei fyrr enn olldinn ód um þá hrínginn vafdi.

95. Hers ógrynni ecki par ógna gorpum mundi. I fiórda sinni samann, þar seggia snorpum fundi.

96. Vigra byriar vedrid hvast vopna giord hin dimma: sára yria alldar brast; ógna hord var rimma.

97. Af fylli brunna branda móts biarnar jódid stundi. Ofan um runna rínar grióts rauda blódid hrundi.

98. Leysti teitann Onund ódk Odlíng Saxa brádi. Sendir skeyta sínu skiótt sverdi strax þar nádi.

99. Strax fram ódu stolltar menn: Strids voru hempur ristnar. Sextan stódu uppi enn afreks kempur Christnar.]

100. Brædra greindi lid vid liek lendungs ranna gneysti. Leingi reyndi þeirra þrek Þeingils manna hreysti.

101. Sannliga taptur sigurinn vann sveit innlendsku finnast; þeirra kraptur þeigi kann þiód af mennskri vinnast.

102. Ulfar framar öllum sliett afrek mesta syndi. Hans hin tama hondvinn riett til heliar flestallt þyndi.

103. Kónginn siálfann felmtra fer. Fólkid gaman selldi. Þúsund hálfa þorna ver þá einsamann felldi.

104. Lángt í herinn áfram ód einn med hiörinn rauda. Þar var hver, sem staddur stód, strax til kiörinn dauda.

105. Fæcka kargir firdar enn, feygdar giptir ösi: hundrad margir heidnir menn hnigu, sviptir lísi.

106. Brædur hinir allir eins ótal felldu manna. Ödlíngs synir í ósrum] fleins eining hielldu sanna.

107. Grímur kallar Ulfar á ygg í glammi stránga. Ydur valla endast má, ort so fram ad gánga.

108. Fólks ógrynni fást vid þad fáir, holldar megna. Oss er, minna k einum stad óvina fiollda gegna.

109. Ernir rísa ondud lík. Eingi lifir dreingur. Fleina drífa er fiúki lík; flesta yfirgeingur.

110. Fliúga skotinn vídt um voll. Vill oss mædinn sigra; Vor er þrotinn orkann oll; ónýt klædinn vigra.

111. Margt er lífs hins heidna hals, herdti ad um grundir. Beckir kífs og kestir vals keppast skiinn undir.

112. Ulfars kraptur alldrei þver afrek dýr ad vinna, gegnum aptur fylkíng fer fram til hlýra sinna.

113. Mest af lúa megnid dvins Módir um sídir giordust. Bokum snúa samann sín. So med prýdi vordust.

114. Kaudum stórar kleimur enn kempur gilldar seldu; Sextíu og fióra mætir menn Meida hilldar felldu.

115. Miog var þegna mædinn gior, mundu lúna reida; Ei so megna mátti hiør mundinn túna sneyda.

116. Önundur skyniar mannlegt megu minnst þeim feingi granda, allañ kyniar þetta þegn þeir hvad leingi standa.

117. Hanns hinn sterka darra dúk dor um stundir hilldar hofdu lerkad bædi búk, bønd og undir gilldar.

118. Miøg á unnu opnud sár ylgia vidur fylli, unda runnu raudar ár randa nidur um spilli.

119: Kíss til rióda Christnra haun kolldu hegdar máli. Sínu góda sídann vann Sigthýrs bregda báli.

120. Grímur Prúdi høggid hlaut, hrucku gerdar vidur; Kialars ad brúdi Kóngs son laut, klofinn í herdar nidur.

121. Gat ad nýu, hann þá hió, Húna fellt hinn ríka. Algarium egginn smó allt ad bellti líka.

122. Æsi býdur Brúna tión, Biorn hanns aflar ydur. Egginn snídur Ascalon allt ad nafla nidur.

123. Red óþarfa Önundur gram ad Elentino lypta. Hilmis

mis arfa hiorinn nam heila rúmi svipta.

124. Hertogi felldur hárs á kvon, heliar jók vid ydiu. Hilldar elldur Siklíngs son sundur tók í midiu.

125. Eyvindur strídur undir beid; Ernir drecka dreira: Hond med sídu hrottinn sneid. Hann þurfti ecki meira.

126. Valla dofnar vigra troll, ad vinna skada monnum: Geirúlfs rofnar heila holl; hior gaf stadar í tonnum.

127. Vex sem flædi vígs um tún vigra dogg úr skeinu; Víkíng bædi og Valebrún vo hann í hoggi einu.

128. Aptur reiddi orminn vígs Onundur blódi glærstur; Godvard sneyddi elldur hyggs. Ulfari stód hann nærstur.

129. Sá kann starfa stríds med kólf, styriar sveinn í kífi; Hann gat arfa Tyggia tólf tekid einn af lífi.

130. Yrpu skam og álog straung áhríns nádu skordum; Nú kom fram þad spiallda spaung spádi þeim ádur fordum.

131. Önundur styggur yggs á
frú ætlan giordi liósa, ad hann hyg-
gur Ulfar nú ódt fyrir sverdi kiósa.

132. Briótur hams gat Sorla
sied; sídst má hilldi þreyta. Arfi grams
á Önund rjed; orku villdi neyta.

133. Kort var glíma: Kóngsins
sin kappid þraut vid þetta; Yggs fyr-
ir bríma úngum hlin Önundur hlaut
ad detta.

134. Af honum kundur tyggia
tók thyrs þann frama lióma. Gránar
fundir: kempann klók keirdi hann sam-
ann í dróma.

135. Ægtar rann, og áfrann
brautst, orrusti plogginn meida. Hvart
hann ad Ulfari skautst, og ætladi hog-
gid greida.

136. Randver þetta riódur sier,
reidist; hendir slaungu; Kónginn þret-
ta kiesiu ver klauf ad endilaungu.

137. Odu tonnur unda bands,
allt ad hepti haudur: kkss í hronnum
Kóngur lands kraup þar eptir daud-
ur.

138. Sóktu barmar sára kíf, Saxar daudir falla; Unda harmar hárs um vlf hrundu raudir alla.

139. Heriann gód og hinir þrír, hollda sneyddu lífi. Heidinn þiód til hallar snýr, hriád og meidd, úr kífi.

140. Eggia vinnu undann þaut Olld, úr stímu flúinn. Hedins innu alldur þraut; Enda er Rímann búinn.

141. Tæmist straumur góma geims, Gínars muna heidi; Næmist glaumur róma heims, Rínar suna meidi.

Attunda

# Riima.

1. Hurdum ságnar hrundid skal nú verda, ræny hallar hlidum frá, hirdslur kvæda opnast þá

2. Atta eg nockra eptir á Vidris kønnu dropa Qvásis dauda blóds; dulda í fylsinum þánka siódS.

3. Mun eg þá láta, medann þeir til endast, akur vøkva mærdar minn, máls so spretti gródurinn.

4. Þeir meiga inna, er af mier vænta kvæda, ad benium Qvásis blæd seint; Blódtøku hef eg siálldann reynt.

5. Einga hitti ædina Sudri fordum Ás hins hyggna høfdi á. Hefur forlast karli þá.

6. Þvi mun endast æfilángt, þó blædi Ási þeim til dauda dags, dreyrinn raudur, saungum brags.

7. Er min bón, ad yfir hans dreyra gilldi Æsir blesi ódt i stad, enn Odinn siálfur helgi þad.

8 Halld eg, ad muni helgidómar þessir kvæda lifga edlis ønd, einnig friófga rænu lønd.

9. J þvi trausti ætlar søgunnar vitia, strax, med hætti studla lags stykkilátur smidur brags.

10. Þagnar hreysi þenna Mannsaung geymi. Attunda fer Austra skeid ad søgunni retta leid.

11. Þraut þar fyrri hundar staupa dryckia; Heidnir flúdu Hilldar saung, hætti um sidir rómann laung.

12. Ulfar Sterki átti sigri hrósa; Mjog þó væri ad sonnu sár, somaGladdur hyrdir siár.

13. Voru þar undir arfa Kóngs á sídu. Brodda nidur rann um riód raudur dreyrinn, þar hann stód.

14. Lítt þó sárir lýrar hans þá voru; Hofdu mestann mædi feing, Millíngs sonum lá vid spreing.

15. Af þeim hoggnar hlífar vóru allar; Herians rosid hallar tiolld hofdu líka jarninn kolld.

16. Jord umhverfis oll af búkum manna byrgd þar var, enn unda ár ecki grynnti daudur nár.

17. Hvad mun eiga hier um margt ad þylia: Soddann hafa undur ei ádur sked vid hrotta þey.

18. Heimur alldrei hverki fyrr nie sídar hefur ad seigia af odrum eins eptirleisum sára teins.

19. Eptir þetta Ulfar Sterki geingur, ad þar bundinn Onundur lá, arfi Tyggia mælti þá.

20. Skadi er, ef skalltu, Onundur, þínum heila verda sviptur sal. Sá eg þier alldrei frægri hal.

21. Ulfar vidur Onundur frídi sagdi: legg eg allt á ydar

ar. náð, auðlegð mkna, líf og ráð;

22. Talar Kóngs son til við bræður sína: leysið kappann Önund ódt; allar deilur falli skiótt.

23. Randver hialar: Hann þann skaða giørdi, alldrei verður Önundur laus, af honum tek eg fyrri haus.

24. Ulfar tier: Það eydir sæmdum vorum, að so dræpum ágiætann og þó bundinn hreystimann.

25. Eingu bættir eru bræður gilldir, hann þó láti lífið hier. Líkar ecki þetta mier.

26. Oss má helldur aptur að liði verða geira bar, sá garpa vann; gagnlaus, ef vier drepum hann.

27. Helld eg kiálka hanns' því stólpum gilldum betst að hæfi heila ker, honum ansar Villeker.

28. Ecki sómir, Önundur laus að verði. Ulfar gegndi ulli brands: Eg skal ráða lífi hanns.

29. Leysti síðann Lofdúngs arfinn milldi Odins hallar ellda meið, af honum giørvöll böndinn sneið.

30. Hinn stód upp; og hneygdi sig med prýdi; Tialldi svipti locka lands, Ulfgiaf þackar Ulli brands.

31. Ydur skal veitast, Ulfar, hier í landi Konglig tign og ríkis rád, reñtann oll um Saxa, láð.

32. Verid hier, Herra, velkomnir til hallar, Onundur tier. Enn eptir þad allir geingu borginni ad.

33. Onundur stefnir ollu landsins meingi, senn ad bragdi samann í krans. Sættu allir bodum hans.

34. Allur lýdur af því fagna nádi, lífs hann kom úr hilldi heim, hagur batna þockti þeim.

35. Hlióds sier kvaddi hann, og mælti sídann: Umskipti, sem urdu hier, ollum kunnug þeinkium vier.

36. Hofúdlaust má haudur þetta kalla; Kóngur vor er fallinn frá, fólkid nidur deydt í strá.

37. Eg er fángi frelsi og lísi giædur af hofdíngia Africæ. Ei skal draga slíkt í hlie.

38. Menn hanns líka munu hvergi finna þessum hluta heimsins í; hof þó kanni, lond og bý.

39. Er mitt ráð, þier úngum herra bióðið þiónkan alla; lík og láð leggið hanns á dýra náð.

40. Allir kioru hanns óska rádum fylgia, megtugir bædi menn og þý, medann þeir ættu kost á því.

41. Að so mæltu, Ulfar Sterki verdur, eptir beidni almúgans, einvallds Kóngur Saxa lands.

42. Allir Tyggia eida tryggða só-ru; Sveit tillagði líka svinn; Lucku fái Kóngurinn!

43. Þeingill játar, þegna við að hallda bædi lög og landsins riett. Lyk-tar þarmeð þíngið sett.

44. Eptir þetta Ulfar Kóngur lætur skiótt tilbúa fólk og fley, ferda-lags af Vidris mey.

45. Skulu þessir Skiolldúngs dót-tur færa Magthilldi til Harallds heim. Hún varð glöð, og fór með þeim.

46. Seggir dróu seglinn upp við húna: Forniótss synir vakna við, vo-dunum sýndu betsta lið.

47. Ægir stardi, eins og væri hissa, þegar rióda resla gná reckar leiddu skipið á.

48. Unnar bródir augum hýrum renndi, þegar hann leit á lauka þoll, og laugud gulli seglinn oll.

49. Geck þvi hugur Glæsis vinum bádum, stillt ad beina brúdar for; Byr kom hægur lands úr vor.

50. Leiddu þessir lóna dýr um grædi, spakt, sem hendti Milldíngs mey, og mundi kiósa Grýdar þey.

51. Af ferdum þeirra fyrri alldrei greinir, enn Africam olldinn leit, Arnar sund og borgar reit.

52. Bragnar stefna beina leid til hafnar; Fleinar kafa í fletid Als; fóru ad sofa vinir báls.

53. Foringiarnir ferdarinnar leiddu síklíngs jód til Haralldz heim. Hann vard gladur, og fagnar þeim.

54. Bragning dreckur brúdkaup strax til svanna; Kóngsins Saxa sendimenn sæmdi giofum líka enn.

55. Skeinkíngar og skíra kvediu sendi Odlíng þeim, er vel til vann. Virdar skilldu so vid hann.

59. Þeingils garpar þadann burtu hielldu sömu leid um fiska frón;

frón: Firrdist landid þegna sión.

57. Ygldar giordu Ægis dætur hrína, skipanna þá bordinn breid billtu þeim um karfa leid.

58. Sárann lietu líka bord og streingir, ellds þá vinur vorunum af vodunum þúngann anda gaf.

59. Hátt var skvalldur hlies í bldu ranni, þegar Unnar orma skrid Olldu systur ræddu vid.

60. Sefudust alldrei sagdar deilur fyrri, helldur enn Saxa lýdir lád litu, og gátu hofnum nád.

61. Kappar sendir Kónginn Ulfar fundu, heilsan báru Harallds þar hanns og dýru skeinkíngar.

62. Kongurinn situr kyrrt ad ríki sínu. Margt so lýdur árid eitt, ecki var til fretta neitt.

63. Önundur Frídi Odlíngs vardi ríki vid útlendra Odda styr, eins og giort hann hafdi fyrr.

64. Var. so eingi vaskur madur í ríki, ad ei yrdi fior og fans fyrir láta vopnum hanns.

65. Hernad ráku hlýrar Kóngs um grædi, sudur og austur sumurinn öll sóktu tídum randa goll.

66. Seint er ad skrifa soddann hreystimanna afreks verk í sverda seim, sem þeir fromdu um allann heim.

67. Vefiar dúka, vopninn, perlur; steina, dýra hrínga, og Dofra skraf dróu þeir ymsum londum af.

68. Allrahanda af dýrgripum bestu Seggir hlódu sunda glad, og sóktu á haustinn heim med þad.

69. Gram þeir færdu gersemarnar þessar; Sátu á vetrum hiá honum í hærrstu tign og virdingum.

70. Innt er, so til einu sinni bæri: Siólabarmar sumarid eitt súd ad vaua feingu bleytt.

71. Haustid, vetur, vor, og sumarid nærsta undir geck, so eingi maun af þeim nockud segia kann;

72. Annad líka árid heilt og þridia; eingi vissi olldinn greid, um hvad vaska brædur leid.

73. Kyniar þetta Kóng og landsins meingi. Jofur helldur helldst á því, halldi muni þeir geymdir í. 74.

44. Brande kiste Blankandini burt úr Mundu, Hálsenn Kauda hió í sundur, Herbon eins á þeirre Stundu.

45. Hiner tveir af Hiørnum Ulfars hrestu Skada: Bøndum svifte Brædur glada, brutu upp Húsed, komust þadann.

46. Geingu á Skeider, Harallð hittu, Honum greina, allt af søgdu Efne meina, ansar Balldur Mistelteina:

47. Hiedann vil Eg hallda í burtu; Honum astur, giegnde Ulfar, galldra Kraftur Galimons er ecke taptur.

48. Ovíst giesast Lundum leide linna Stræta, Kved Eg beira Kyrdum sæta, Kóngs Asokmum sídann mæta.

49. Þó liet Hilmer Harallð ráda Haf-Jórs Bande; Atkier dragast upp úr Sande, Øskum hielldu frá Blálande.

50. Fyllte Seglenn fagurbúnu Funa Hlýrer, Blódug hadda Bisar Stíre, blakar Súder Upsa Mire.

51. Blálands Ekja Hafner hittu: hvad mun olla; Virenn mistu Holldar holla, Hite giørdest, Logn og Molla.

52.

52. Heilann Mánud hielldu fost-um Hrannar Liónum, alldrei Kylia fást á Siónum, sefur drofn med Eg-ers Hiónum.

53. Efter þetta árla Morguns Itar heyra, á kom Vedur ollu meira, allt úr lage tók ad keira.

54. Eger rikur, Skeider skulfu, skiftust sundur Landfesternar, æsast un-dur, Elldurenn sem flige Tundur.

55. Flotann Keirde fram í Ha-fed, flestallt brotnar, stockur Reidenn, Stiórnenn þrotnar, stódu í HáskaBry-niu Gotnar.

56. Hofud-skiepnur Heimsens mæd-dar hristust vidur, allur þotte farenn Fridur, fegnar villdu deya nidur.

57. Litu um síder Land fyrer Stofnum Lofdar. fiáder, Blálands Jordu þecktu þiáder, þrottnar voru flestar Náder.

58. Blærenn harde Bordá dyrenn bar ad Lande, ok þeim drofnenn oll briótande, upp ad nockrum Malar-Sande.

59. Herians nádu Fánge fliòds og Fiolners Skrúda, lika Vopnum Li=ded prúda, lietu efter Hindur Súda.

60. Skipar Ulfar Skatna Valed skrýdest Gierdum, uppá Hæder slýttu Ferdum, fagurbúnu gyrdter Sverdum.

91. Oslýande Ogna Herenn ad sier rída, Galimon sem gyrner strída, Gautar litu Fofners Hlída.

62. Honum filgdu Hlýrar 12, sem Heistenn krafde, þeirra Lidur þeige tafde, Þórer Jotna med sier hafde.

93. Herenn nálgast Herra þá sem hrakter vóru, af Siòvolke ógna stóru undann þessum hverge fóru.

94. Ulfar giorde bestann bidia Budlúng Hæda, og Hanns Lid um Adstod Giæda, í Hreggvidre Sára slæda.

65. Ættar=Tánga út úr Skeidum aller draga, bláu Klædum Hilldar ha=ga, Hogna drífu sig tillaga.

66. Ulfar Sterke, Onundur Frk=de, og Haralldur, Villefer med Víser calldur, Vemundur í Fleina Galldur.

67. Randver þridie Hilmers Hlý-
re, Hríngvard Nefne, sagdann fyrr í
sonnu Efne, sierhvor fram̄ ad Rómu
stefner.

68. Atián þúsund Herrar hofdu
Hreystemanna; geniur mote geistum
spanna Gondlar Storme Ovinanna.

69. Galimon sá grimme Kong-
ur geirs ad drátta, hafde medur Hiorf-
um̄ þrátta, hundrad þúsund, sextíu og
átta.

70. Heyrde Lúdra hvellann Gní-
enn, hverfur gaman, Filkingarnar sigu
saman, sá þar margann Rómu tam-
ann.

71. Galimons, þad greiner Sogu
Glósann skýra, 12 þúsund um hvor
eirn Hlýra, hafde under Vopnum
stýra.

72. Tigge líka 12 þúsunder tald-
ar hafde, Þórir eins til Þrimu krafde,
þræla sína Járnum vafde.

73. Fiórtan teliast Filkingarnar,
sáum skilia, syrte ad Ele Bolverks
Bilia, blika Folldev Hrugners Ilia.

74.

74. Galimon med Geiſe Ordum giorde eggia, Járnum klædda Sollenn Seggia, Saxa Herenn gegnum leggia.

75. Sókte Mæde Siöhrakt lided Siklings Chriſtna, ad þeim vegur Olld-enn ſliſna, ótal deidde ſundurriſtna.

76. Herculianus Hilmers frænde hier næſt ſæker, fram í Herenn medur Mæker, marger runnu dreira læker.

77. Floricanus filgde Honum full-ur Bræde, med ſo miklu Ogna æde; Eingenn trúe Eg vid þeim ſtæde.

78. Eins og Vargar eyda Kid-um, ótal ſærdu, Bryniur riſtu, Blód utſærdu, Branda Hollde Olldra lærdu.

79. Ulfar giorde Onund vid í O-ruſtu ſpialla, Herenn tekur Hrönnum falla, Heled ſæker nálægt alla.

80. Blálendíngar Bifurs Ell-dum bregda Raudum, Varner þrióta Vígaſnaudum, vellta á Folldu Monnum daudum.

81. Fior-Ráds Díſer fella oſſ á Feigdar Stræte, nema kiöred Giæfann giæte Galimon í Heliar Sæte.

82. Önundur nam Ødlings måle aftur svara, ydur skal eg alldrei spara Algiætt silge mins Brinþvara.

83. Medann Sidhotts mærenn Hrotta min Asliktránga, upp kann reida Ettar Tánga, og Edar Líssens Hitann fánga.

84. Sídann brugdu sínum gylltu Sára vondum, fræger klufu Hraust-um Hondum, Hiálmana af Svardar-Londum.

85. Brendu þundar Bálenn heilu breida Skyllde, under þeirra Eggiar villde eingenn vogast Gaurenn trillde.

86. Fiollners drauga flagde beittu Frægra Munder, trilldar meir enn tvær þúsunder, tródu Heliar Becke under.

87. Var þvílíkt sem Lión vid Hiördu leika næde, Unda gleipte folld-enn flæde, Froned skalf sem lieke á þræde.

88. Tíu drap í Hogge hverin Hilmer Saxa, Önundar nam eirnenn vaxa, Ord í Ride Benia Laxa.

89. Þrír í Mundum þóttu á Lofte þeirra Skiómar; slíkra

Kap-

Kappq Lofstýr lióma, leinge Verolld þetta rómar.

90. Briálar Taled Byleigs Ole brestur Kvæde, bætist veitist bestu Giæde, brotne slitne flestöll Mæde.

Þrettánda

# Riima.

1. Kváfers forna opnast und, atrids hvata Valer, Kialars Horna kenna Sund, Kvæða Nornar spenna Mund.

2. Allskinande Meyar mier, Mærdar hrærda Krafta, Lióda vande, lifne Fier, Líssins Ande vermest hier.

3. Hiartad danse, Hugurenn hresse Vessenn Kvæda, Blómenn glanse Mærdar minn, málum anse Farsælldenn.

4. Sunnu fegre Giæfann góð, græde mæde Hiarta, Indesslegre á Biggs Lóð, yggiar Hegre hvar vid stóð.

5. Aller Kraftar allstadar, ad sig lade styrkia, Himins skaptar Hræringar, Heims óskaptar Verurnar.

6. Elfva Sandur, Ægey hiá ytra hvítar hæreft, Js Siólbrandur og hvort Strä, uppheims vandur Fune sá.

7. Bersa Grímu Nafna nú neidda sneidda qvelie, Fiørráds Jmu Filgdenn trú, Filvings Gímu styrke sú.

8. Fróns á Jadre feingest Bót, fundenn stunda villde, Hvítfalldadre Hnikars Snót, Hiarta gladre qveda mót.

9. Enn ef nióta eige kann Auduns raudu Kiera, skal Eg brióta Røgners Rann, rændann skióta Helblindann.

10. Norner Væla í daudans Dal, díúpann kriúpa nidur, Nidhøggs þræla Nóg Otal, nú ei fæla Briósted skal.

11. Skálldum blæde Qváfers kiær Kvæda Ødenn Hiarta, mín Sár Bræde sefast siær, Søgu fræde Stryded Liær.

12. Ulfare Sterka foor eg frá fyrr í Styriar Klædum, Yrs þar Verka átte þrá, Eggenn lerka Hríngiur má.

13. Blinds úr Taungum Vopna vann, velldest Elldur gióla, hiá Astraung-

skraungum Hilmer brann, Hiarta gaung- um faldest Hann.

14. Önund Frída allt eins vid Iniu Rímann skilde, Kesian strída kiæsde frid, kunne snída mannfólked.

15. Andar-Snauda Víga vond, Valregns alenn Bullda, Grøn fol Rauda grette þönd, geislade auda Skiall-dar Rond.

16. Hvor sem megnar Hirder steins, Hiornum kiorna medur, letu slegna Lunda Teins, Lausa útdregna reindu einz.

17. Giæsku audur Gálimon, gá- de brádur líta Herenn snaudur hreste Tión, hníga raudu æda Lón.

18. Sínu linde Sióle brá, sag- dur Bragda neytte, fúlum Vinde Vor- um frá, vatt, med Skinde dimmer þá.

19. Ahorfande eingenn sier, ygg- iar stiggra Bedia, sár titrande svigna ser, særdur Ande Krafta lier.

20. Þeir Fóstbrædur skildu skiótt skiædast mæder Vedur, Bisurs Glædur báru ótt, Benia Flædur voktu drótt.

21. Ulfar frækenn þvkngast þar, Þióðenn stóð í Hópum, að Honum sæker Otal var, Ödling Mækenn reidde snar.

22. Sá þó eige Hilmer Hior, Hrelldur, selldur Blindu, Bols á deige bresta Kior, Budlúng seiger Dygda Ör.

23. **Gud sat Tyrum Gram stirkte, Giæda Hæda Sigur, Blods at Múrum mier veite, moot Orúrum Herflocke.**

24. Heyrde Taled Hilmers á Hlýrners dýre Jofur, Mirkur faled mátte siá, meinge kvaled fellur þá.

25. Hió og lagde Hilmer snar, Háa Blálendinga, skommu Bragde blæddu þar, Bryniu slagde Ædarnar.

26. Hiálma klífur hreiste Ör, Hyrder virdur Dróttar; Fylkíng rífur Baugh Bor, Blóð útdrífur, litast Hior.

27. Her sinn gledur Hilmer þar, Heidna deida þorde, Valkost hledur, Brandenn bar, Blóðsins vedur Elfurnar.

28. Klauf í Herdar Merkessman,
mætur Giæter Landa, hruckú gierdar
huíga vann, Heliu-Verdar sókte Rann.

29. Hordu Stríde vanur var,
Virdur Hyrder Bauga, sundrar Líde
svarta þar, Sikling, Prýde Verralldar.

30. Lofsthr kiendur lifer þinn,
Liós og Hrófed þióda, Monnum send-
ur marglesenn, medann stendur Heim-
urenn.

31. Þetta lítur Gramur grár,
Galimon alenn Reide, hvorsu nýtur
Hilmers Blár, Hiorenn býtur drehra
Sár.

32. Nýdhogg líkur Niflung sá,
náde brádur grenia, Illsku-Ríkur ól-
mast þá, eingenn slíkur finnast má.

33. Od ad Saxa gilldum Gram,
giörde Jordenn skiálfa, med alvarenn
Heiftar Ham Hiallta Laxenn reida nam.

34. Þrídiúng Tiggia Skialldar
skar, Skilvings Bilia þundar, Glód-
enn yggiar, giörde þar Guds til Hygg-
ia strax Ulfar.

35. Bad ei deifde Illsku Or
Oma Liómann dýra, sídann hreif-
 de

de ſøgdum Hior, ſá þeim leifde Hel-
iar For.

36. Hardann klífur Hiálmenn ſnar, Hiartad partad ſneidde, Bryniu rífur Budlúngs þar, Ben úr drífur Eda Mar.

37. Sára Ørenn Siklings Lát, ſagde ad Bragde Reckum, riſte Hiorenn Beiſla Bát, blódug Størenn Vopned át.

38. Chriſtna gladde Kífed þá, kiæſt og ſvæſt Ovedur, Verolld qvadde Víſer ſá, Varga ſadde folldu á.

39. Ulfar ſier ad Ønunds Hønd, Øma Lióma beitte, Hiálma ſkier og Hveria Rønd, Hródur ber um Víga Strønd.

40. Honum móte Hrotta bar, Halurenn Alexander, Odds í Róte Ønundar, Illra Róte Bardann ſkar.

41. Frægdar verda fríd Kempann, Fleina Reiner Heidna, Klíſe Sverda Krafta fann, klauf í Herdar nidur þañ.

42. Eſtaron, ſem eidde Trú æde ſkiædum Brande; Hlýra vonar hefna nú, Hegna qvonar vakte Frú.

43. Hríngvard stidia Honum mót Heidur greidur náde, Sára Sydian Sóknar fliót, sundur midiann sneidde þriót.

44. Þilbaneruß þetta leit þarma Barma hefner, Hríngvard Skierenn Hlífa beit, Hrottenn fer ad lúngna Reit.

45. Randver þettá riódur sier, reidest Eyder Hríngiu, Hyrders Pretta Hiálma ver, Hiarnar-Klettenn assneider.

46. Lát Flodinus Frænda sá, fram̃ í þrammar Herenn, Tirsing sínum bist-ur brá, Visurs Dínum lamde á.

47. Lided meidde Laufa Týr, leinge spreinger Hiálma, fólked deidde, flakte Vír, flestallt sneidde Málmur nýr.

48. Heims um alldur Hrósed ber, Hreiste treister Sinne, Knár Haralldur Kesia sier, Klóta Balldurs Adsókner.

49. Fram̃ í Herenn sókte sá, Sender kiendur mækia, ellte siered Olmum frá, unda Hverenn beliar þá.

50. Blóde klædda Hrílsann Hørd, Hrund, Mergundar Oma, þakte mæd-da Bukum bord, brakade þrædda Járns umgiørd.

51. Alldrei hætte Hrauſtur þó Helin velia Meinge, fyrr enn mætte Flodino, Fyls er vætte dreira Sió.

52. Hvor gaf odrum Hogg ótolld, hriſtuſt biſter vidur; Randa Nodrum riſtu Skiolld: rifna á Jodrum Hlackar Tiolld.

53. Hlífar Kafla hvorigur hiellt í Svelltu Fridar, Bryniu Hafla Haralldur hió ad Nafla vídfrægur.

54. Helin ſtránga Hyriu Ver hlaut um Brauter Víga, Garner hánga, Sadning ſier, ſoktu þángad Vargarner.

55. Sár og módur ſídann var, Sunnu unnar giæter, Hrolfur Bródur Bana þar, Bræde ódur um fregnar.

56. Hleipte ſtrax ad Harallde, Heiſtar Sveiptum Blóde, Benia Laxenn berande, Bræde Vaxenn í Kíſe.

67. Gat Ofrkeum giegut Oſpar, Gram til frama reidde, Hond med Sídu Hiorenn ſkar, Hanns í Strídu Sóknum þar.

58. Hrólfur ſnaudur hníga vann, hrunde ur undum dreire, ſveigde Haud-

Haudur Sveita þann, sídann daudur liggia vann.

59. Harallds mèiga þesser þok þeckia Reckar sídann, Kesiu ódeiga Kvolum í kiore feiga Vals um Bl.

60. Undum freidde Eda Mar, eirenn dreira gleiste, Ræsers eidde Reckum þar, Ridill sneidde Fins leifar.

61. Einn af Hlýrum Ingeser, Eyturs Hneiter medur, grandar dýrum Gilsa Her, Gonduls Mýrum ód efter.

62. Doglings Kundur soddann sá, Sæmdum dæmdur Christenn, þeim Vemundur mætte þá, Málma fundur byrjast á.

63. Voktu dreira Vopnenn mió, vikna blikna Skyllder, Adsókn geira endtest þó, aftur meira Gramson hió.

64. Vopna Jdiann Luckn lier, Lunde Mundar Svella, Benia Gydiann blódug er, bútade midiast Ingeser.

65. Nærre staddur Regaton Naudur dauda litur, Hlýra, ógladdur Hárs á Kvon, heistum saddur, þess er von.

66. Sveigde Glæstann Giarda mar Gramson ramann Afle, Sóknar dæstann særa þar, Sídu læstann Filkingar.

67. Giegnum fríðann Gilsa Nid, Geyrenn keira náde, látenn sídann fagnar Frid, sann óblídann Christed lid.

68. Falla Balldur Bauga sier, Brædenn mœder Sorga, fliott Haralldur frammrenner, fífu Alldur skapa ver.

69. Seima Lundur Sigur feck, Særdann færde Heliu, Kialars Tundur Kífs vid Beck, Klauf í sundur Heidenn Reck.

70. Floricanus framm á Slód, ferder herder dreira, Oma Svanur magnar Mód, miked vanur þundar Glód.

71. Hugdest borga Haralldi, Hlýra óhrann dauda; Otal Torgar adsókte Eyder Sorgar liótt Meinge.

72. Hundrud átta Hyrder Fleins, Hlífa Ifenn sóktu, þennann mátta undereins og vid þrátta fleiger Teins.

73. Hrotta riste Haralldz Kvid Heidenn Eyder Mækia, Krafta miste

miſte, fyrdtur Frid, ſiell, og giſte Búka vid.

74. Lá óvígur lúenn var, Letred getur ſeirna, Benia Gígur bældeſt þar, Blód útſígur Holundar.

75. Sinn Foſtbródur falla leit, framur Gramur Saxa, biſteſt riódur Bol Hanns veit, ber þeim Hródur Heims um Reit.

79. Þángad ſtefner ſtrax er var Stóre Poreſius, annann nefner Brynſiu bar, Branda Stefner Hlýra þar.

77. Herculianus Hialle á, Hríngiur ſtínga þorde, Floricanus þridie þá, þótteſt vanur Rómu Sá.

78. Þeſſer Barmar hofdu hier Haralld bareſt vidur, Giefnar Harma vardeſt ver, vætte arma Blóded ſier.

79. Marar Sunnu medann Geir Nætur Giæter hafde, lítt áunnu þegnar þeir, þar nú Kunnu orka meir.

80. Ulfar þegnum ollum bar, af, ſem Rafnr leire; fór í gegnum Ylfingar, Fleine ſlegnum blædde þar.

81. Ellding Líkur Auſtre frá, undann ſkundar Storme, Orku-

Ríkur

ríkur Eins og sá, - Eingenn slíkur finnast má.

82. Hlífa Grandeð Hetiann rióð, Hiálmum Iálma lætur, ósigrande allre Þióð; ut um Landeð flæðde Blóð.

83. Floricanum hitte hann, Hiør tilkiørenn bærði, og af Hanom Heila Rann, Hofdingianum losa vann.

84. Sá sem mikla Klífed kaus, Kraup að Staupe dreira, bleikur stiklar burtu Haus, Bolurenn spriklar Sinnulaus.

85. Von er meire Voda þeim, Vinum hinum Klækia, Fróns á leire svifter Seim, so munu fleire kvedia Heim.

86. Sveit Blálenda Skiómenn skar. Skrifuð lisa náer, Filkers kienda Frægdenn þar, fram̃ til Enda Veralldar.

87. Fólkeð hróse Þeingill þier, þægum frægum Drottne, þínar Kiose Sæmder sier so sem Lióseð Heimarner.

88. Sár naudugur Sikling frá Saxa strax Eg vende, Lióda dug-ur

ur minka má, minnest Hugur fleira á.

89. Flæda Bloma friidum Ver, fagur Hagur dæmest, Giæda Soma hliidum hier, Hæda Liooma biidum vier.

Fiórtánda

# Riima.

1. Skálldenn ádur Sanna Foll-bar Frædinn huldu, Aster þádu Sørva Svoldar, Sorger huldu.

2. Fólknárunga feingu lika fríða Hille, Hvor ein Túnga Hollda rika Hrósin gyller.

3. Veit eg slíka á vorum døgum, vitrer sanna, Ordtu lika ut af Søgum Afreks manna.

4. Blønduðu dádum Sónar Siórenn Sigtyrs nyter, fleire ad Brádum flíuga þó, enn Fálkar Hvíter.

5. Riæter Linde Krusa Hverenn Kialars giallda, því mier Inde þetta lier i þrentum Alldar.

6. Last Ovina Laungum Nider lige munna Hecke Eg hina, þackta Pryde þá mier unna

7. Beidde Ættar Boge af Søgu Bragenn smida; Til so hætta, tók Eg Bøgu Tal utþída.

8, Má Eg játa,: Mærder Þessa minstu gillda, Efterláta Ordum þessa er min Skyllda.

9 Vidars breite Visku lakre Vined Kiera, Giæfann veite Odar Akre Avøxt bera.

10. So ad dáest søgdu Qvæde Sæmd elskande, Indess fáe fegurst Giæde fólk hlýdande.

11. Mannsaungs Orde frá sig flitur Fálu Gosa, Tals ad Borde Sagann situr so mál þola.

12. Þraut ovandad þænska Sterkum, þiod frá kinne, Ulfars blandad Afreks Verkum yggiar Minne.

13. Undlúng slíkann bored frídann, bokad finnum, Orku ríkann alldrei slídann, Odens Qvinnu.

14. Floricanum, felldann Mæke frette strída, Herculianus Hiornum sæker Hilmer frída.

15. Porde líta Peingill Manneñ, Þvodest Rondenn, Laufann bíta liet á hann, enn losnar Hondenn.

16. Annad drífur Hogg á Hnukenn Heila Skafla, Eggenn klífur allann Búkenn ofann ad Nafla.

17. Heliar Ædе hrakte gaman, huígur Dárenn, teigdest bæde sundur og samann Svartur Nárenn.

18. Þar vid staddur Þoresius þessa gáde, Golldrum saddur, giedi fríu geisa náde.

19. Stiriar sólgenn Stála Baugum stifta Nauder, hristest bólgenn, brenna úr Augum Blossar Rauder.

20. Ulfars hoggur undafære Ullar Karsa, Hrottenn snøggur hlióp á Læred Hilmers diarfa.

21. Grimdar klædde Geirenn meidde Gram hinn fróma, Dreirenn blædde, Dogling reidde dyrann Skióma.

22. Hiørenn Storme Hiedens Innu, hræddest Fiande, vard ad Orme, Oma Qvinnu í smiugande.

23. Mikell ótte morgunt Þorde Monnum hallda, blárendóttum spriklar Sporde Spiller Alldar.

24. Galldra Rike Gaurſens Kraftur, Giæſu audur, Manns í Likſe Aeſteſt aftur upp á Haudur.

25. [illegible] lided hanns Bendingar Hiorenn ſkóku, Blóds um midsed, Blálendingar belia tóku.

26. Hópar kierner Heliar Torga Heiſtum fyllder, Berſerkerner bláer orsga, bitu Skyllde.

27. Heitum Chriſtner Hrottum ſlegner hrundu í Dreira, Aerduſt ſliſsner, undrum gegner Aſókn Þeirra.

28. Oegling Saxa Drótt ſá lída Daudann hronnum, Giorde axa Hlinsur hríd, ad Heidnum Monnum.

29. Skammre Stundu Fleiger ſleina ſlockenn eidde, Sio Þúſunder, Þar til eina Þeingill deidde.

30. Sára Kolfe Svotners Feriu Sender mætur, Jafnann 12 í hogge hveriu hníga lætur.

31. Hreiste ríkur Hiorfa Giólu hverge mædest, Eingenn slíkur under Sólu Ødling fædest.

32. Knár Øunndur Kífs ad Vana kiøre frama, hió í sundur Heidingiana Hópum samann.

33. Tíu Mundium Hogge hveriu Heidna sneidde, Ellefu stundum Ullur Veriu ut af deidde.

34. Hver sem megnar Hvødrungs eida hirder besta, Lausa utdregna lietu sneida Lídenn vesta.

35. Sunnu Hvera Giæter góde Gaura meidde, Villefer um Víga Slóder vopned reidde.

36. Kappenn mæte hafde í hveriu hogge Níu, stundum Giæter Stála veriu steipte Tíu.

37. Saung á Skiolldum Sverded giæda Sviftum Ráde, Blámanns olldum, Blóded æda belia náde.

38. Fram̃ í Þórers Filking rende, fús til Happa; óttast fór hinn Illsku kiende Afreks Kappa.

39. Brádheit dòggenn Blódsens Farsa bilur um Skyllde, fordast hògg-enn Filkers Arfa fólenn villde.

40. Kiætast Erner Asókn nÿa eflde ad Vonum, Berserkerner fóru ad slÿa fyrer Honum.

41. Þórer lítur þræla marga þan-nig falla, Góds ónítur God til Biar-gar giørde ákalla.

42. Fram beliande Fólenn geistest Flocke hinna, eins og Fiande ólmur treistest íllt ad vinna.

43. Búka kramde Bryniur ristnar bar sá Hópur, hió og lamde Herenn Christna Heidenn Glópur.

44. Þetta sier hinn Sæmda stóre, Sinness bráde, Villeser ad vondum Þórer vada náde.

45. Hió hinn þecke Hiorenn tiá-de hreiste alla, Brandurenn eige byta náde Blámannz Skalla.

46. Gugners Idiu Gaurenn dock-ur glotte ad þrotum, sundur í midiu Sverded stockur, saung í Brotum.

47. Fellur þar ad Folldar skarne frá Kífs Ede, líkast var sem Lausenn farne Líksaung kvæde.

48. Gaurenn stundar Góens Jarda Giæter meida, brá sier undann hogge harda Hetiann reida.

49. Stórann eigde Stein Mæringur Styriar lesta, þessum fleigde fyrer Bríngu Fólans vesta.

50. Sterkur Runnur Fofners fytia feck, þann hræra, sídla kunnu sagdann þvita 6 ad bæra.

51. Bríngspalernar brátt inngánga Bófans nádu, alla fyrnar Orku stránga ad því gádu.

52. Þrotenn Krafte Þórs á Sprunde, þorde ei flacka, þræls úr Kiafte Dreirenn dunde, datt á Hnacka.

53. Greip upp Klóta gilldur Reiner Galldra Fóla, hugde bríóta á hordum Steine Hriggenn dóla.

54. Heliar Stíu hreckium saddur hverge nítur, Þoresíus þar nærstaddur þetta lítur.

55. Kom ad Bake Ödlings Arfa æser Pretta, Saurenn lake Gram óþarfa giörde upprietta.

56. Og í strídu fleina fiúke Fólenn reide, Hofuded suldur hanns af Búke, Herrann deide.

57. Leit Önundur lífs æd grætur Lausa þolle, hrigdest þundur þorns ágiætur, þettad olle.

58. Brædenn tekur Bríósted nkta, blies hamnande, Locka skiekur, Haudred hvíta hátt stiniande.

56. Upp ad Midte í dreira Ókum Dreinger ódu, þar næst hitte Þorestum þrauta módur.

60. Ver ófvífur dør utdregnum Dreka Jardar, Önunds rífur ofánn í giegnum allann Barda.

61. Herians flíka Horned niste Heliar Broddur, Kappans líka Qvidenn riste Kirglams Oddur.

62. Veiga Hlinur víga mædde vafdest Trega, Istrann hrinur, undenn blædde ákaflega.

63. Sier Önundur Fóla feigann, Fótbít reidde, og í sundur dygda deig-ann Dólgenn sneidde.

64. Efter Dáda unda Orkdar eft-er Vonum, giora náde harda Hríd ad Heidingíonum.

65. Búkum safuar Bráins Feriu Balldur kiende, Ellefu jafnann hogge hveriu heliu sende

66. Kvedur Herenn hlióde snialla, Heidner siáed, Villefer Eg visse falla, vita fáed.

67. Hiorenn blíkstrar, Hausar rof-na Herians Sonum, Filkiug tvístrar, flester dofna, fyrer honum.

68. Sala flikur Sigtÿrs Happe sundrar glæstur, Orku ríkur; Afreks Kappe Ulfare næstur.

69. Stór á Láde þreke þrotenn (því var midur) Þórer náde rakna úr Rote, rettest vidur.

70. Svared greidde svartur Gyg-iar Son óþída, Herenn beidde, hverge flÿa, helldur strída.

71. Kvad offtóra Ovirdíngu yfer=falla, Hiálma þor á Hrotta þíngum hræde alla.

72. Pad er Gaman Þórs á Sprunde þunnu Mækium, Flockum sam=ann ad Onunde aller sækium.

73. Hiálmum under Heliar flein=um hoggva þóttu, sim þúsunder allt í einu ad honum sóttu.

74. Dreira Gillde Vorgum vister vída jóku, ad honum Skyllde Bósar bister bera tóku.

75. Yfer Hríngenn Herthadur Hlaupa náde, blár Heidíngenn hver ó=gladur Hrædslu þáde.

76. Þióda feller þúngt blásande brauta ríódur, stód á Velle Vopn be=rande Vlga módur.

77. Þórer bítur þúngann Skiolld=enn, þetta tiáde; frægre lítur engann Olldenn upp á Láde.

78. Látum Bríma Bilgiu Verenn britia Mæker; annann Tíma ólmur Herenn ad honum sæker...

79. Vid hann reina valla gilldte vondum Monnum, Yggur Teina Folked fyllte feigdar Konnum.

80. Þórer vidur þá Onundur þannig mællte: Svika Smidur Svartur Hundur Sóknar stællte:

81. Mitt skal Fiored furdu stórum Fólenn Kaupa, fyrr enn giorer Fleins í Orum Frægd af raupa.

82. Þræll óśáttur þrimu Fáre þecktur vída, betur máttu duglaus Dáre duga ad strída.

83. Hyrin Kundar Helptenn ríka Hyggiu þiáde, vid Onundar Eggian slíka ólmast náde.

84. Bad Neptalum, bistur svara Venia funde, med sier Halur mætte fara mót Onunde.

85. Báder sækia Chrístenn Kappa Klóta Vende, Balldur mækia hoggenn Happa Heidnum sende.

86. Gaurenn menska Geyrenn stóre giorde svada, Enn Blálendska Eggenn Þórer engann skada.

87. Þreitást hlítur Góens 'grundar geimer stríða, Randver lítur, Raun Önundar Reckſens fríða.

88. Þórirs gierde Hauſenn hoggva Herrann ſlíngur, brotnar Sverded, eru þad Ofgar, og vid ſyngur.

89. Þórir unda þeinker ſære þá uppreida, Æger ſundrar á kom Lærenn Eggenn breida.

90. Allur ſmígur Unda Nadur ofann med Beine, fiell óvígur ecke gladur Odda Reiner.

91. Blæder frídum undenn æger, Iſeſt Falnum, mædeſt tídum Blundenn bæger, blífa í Valnum.

92. Feingur Oma þeckeſt þunne, þreide Giade leingur hlioomа ecke unner, eidiſt Qvæde.

## Fimtánda
# Riima.

1. Feingur Yggiar Fimmtánde, Fólke bodinn verda skal, má ad hyggia hlídande, hver sem elskar Lióda-Tal.

2. Vinum bestu vil Eg hier vanda Kvæde Skiemtunar, þeim er flestu mædum mier midla Tale Huggunar.

3. Hiartad mædest Heime í, helldur kvíder Soknunum, Briósted hrædest Bøled því búed Heistar Voknunum.

4. Giæfann Krafta giefe mier, Gledenn Briósted fylle ny, Sókner taptar sigre hier, sem ad neida Hugar By.

5. Líka veite Lióðum Skil, Lífsens Anda Kraftar já, Indess breite øllu til Angre því sem skada má.

6. Teirnenn lestur Sókna sie, sem ad teida Oviner, Aller bestu innsigle Ofter minar Kraftarnier.

7. Eg skal stunda Jsa jørd, Akur plægia Lióðanna, þegar unda Hrídenn hørd hætta náer Offsókna.

8. Þegar Stríde þrítur manns, þróast blíde fridur nyr, efter Hríder Geisla glans, gefur þyde Rødull dyr.

9. Sá mig stodar Herra hier, hvorskins ødlest Jøgnudinn, framar enn bodar Máled mier, Mærdar tala þetta sinn.

10. Haukur Oma flygur frá Flockum Qvæda Rauna Tals, Søgublóma skodar Skrá, skemter Hædum Sinnudals.

11. Randver skarann vard eg vid, Valnum skilia raudum í, unda Bárann Niflúngs Nid neidde ad Rauna Skiere því.

12. Hilmer Saxa Hlýra sinn, hnýga leit í Valenn þar, Brióste váxa Bols fauginn, bólgnar Hiartad Hetiunnar.

13. Þeingill hleipur Þórir á, þundar fleigde raudre Glód, Hondum greip í Høku srá, Hollded rifnar, dreirde Blód.

14. Odum trilldest Aulenn þar, allann skein í Tanna gard, Klær ad Milldings Brióste bar, Budlúng eige hræddur vard.

15. Móte tekur Trolle hann, tókust hardar Sviftingar, Brúsa

skiekur

ſkiekur Bláleitann, Biorgenn Þoldu yptingar.

16. Þeingill ſpenner Þuſſans hrigg, Þórir Fiandann ákallar ſier mót kienna Alma Igg, uppá ſtanda fæturnar.

17. Gilldur hamaſt Grílu Bur, greniar folldu umkeireſt, Nauda gamall Nydhøggur nú vid honum daufheyreſt.

18. Stiller ſer ad Steine þá Strákenn med í fánge ód, Villeſer, ſem ádur á, illann ſleigde Glæpa Siód.

19. Daprann mæta daudann ſá, Dólgur beidde Kong um Fier, lofade bæta allt ſem á, orded heſde fyrer ſier.

20. Sagdeſt alldrei ſína Trú ſídann ſpara jordu á: Bóſans Skvalldre Niflúng nú, náde ſvara: **Þad er frau.**

21. Bid ei leingur Þórir þeſſ, Þinna Svika gielldur ad, Heliu dreingur hafa Seſſ, hlýtur, þad er verdſkulldad.

22. Bóſann lagde Biarged á, braut í ſundur Hriggiarlid; ſo er

flagded

flagded Sogunne frá, samt er uppe manuorded.

23. Ulfar vekur illre deid efter þetta Blámanns þiód, fráuann skiekur fetils Seid, freidde úr Laufa Sporum Blód.

24. Fólked Christna falled var flest í dreira Bilgiunum, sundur ristnar Bryniur bar, Blóded veittest ylgiunum.

25. Önund skal um Ordrædann, yggiar Sprunded frægur trad, vid Neptalum hafde hann Hrotta fundenn uppbyriad.

26. Endelángann allann klauf, ecke svángann Bófa þar, Bryniu Spánga Bladed rauf, blódugar hánga garnernar.

27. Sverda funde Sármæddur, sídann valla beriast kann, yggs á Sprunde Önundur yfer leite gánga vann.

28. Hordum Steine hoildest á, hyggur Mæde rena skal, Ulfars greine aftur frá, Ofur = Sóknum lióda Tal.

29. Lid hanns falled liggur allt, Laufann sveittur reidde þar, Blóds um Fialled Kvalakallt, Kongenn þreittu Heidingiar.

30. Önund deiddann hygde hann, Hríngenn slóu Oviner, um þann neida da Afreks mann, Einum veriast morgum her.

31. Hiálmur mardest klofna kaus kosta Rondenn Bryniann med, Hilmer bardest Hlýfarlaus, Hiallta vondur singa red.

32. BelsaÖlldur sára sier, Sikling fiolda deidde manns, bar ad Skiolldu Þeingil hvër, þiód í kolldum Vigra dans.

33. Nú skal minnast Önund á, Orustunnar heyrde gný, mátte finna Mædenn þá, mínkade nockud Brióste í.

34. Villde giæta Ödlíng ad, um sig vefur Hlífarnar, hlióp á fætur strax í Stad, stefnde so til Vígvallar.

35. Lided falled lítur allt, Lofdung nærre Handtekenn, Blodz á

N Hia=

Hialle Boled kallt, Brióst Önundar
flýgur inn.

36. Manndygd virdta hreiste Hug
Herrans blondud vigra Jels, eins og
Birta alvolldug Ofurhita fagra Hve-
ls.

37. Slíkur fædest alldrei eirn un-
der Sólu Kappenn snar, eda klædest,
útann hreirn Ulfar frægste Verralldar.

38. Ulfar lítur Önundur illa stad-
dann Rómu í, Hreiste nítur hugadur
honum duga villde því.

39. Kesiu reidde Kappenn ör,
kunne rofna Skialldborgenn, Heidna
meidde, flúde Fior, flestum dofnar Ad-
sóknenn.

40. Búlldann Klóta beliande, blæ-
da liet úr Striúpunum, Kauda lióta
kveliande keirde ad Heliar diúpunum.

41. Sadde Hrafna, Sigur fánn,
sá sem látenn meintur var, Ellefu jaf-
nann hogge hann helui sende feiga þar.

42. Ulfar Sterke Önund sá, ód-
um brisia Heided Lid, Kongur merke
kiættest þá, Kappann mællte þetta vid:

43. Giæfu dagur mætte mier, mínum Vigre særdum af, Herrann fagur þegar þier, þrotnum Sigre lífed gaf.

44. Hefde ecke Hondenn þín, hiálpad vanda Rómu frá, munde hleckia Heliar Pín, hafa grandad Lífe þá.

45. Kappenn gillde Kónge tier, kom í Hranned Sinnu fast, ad Eg skyllde ætíd þier í Mannraunum vel giefast.

46. Mest ad gáde Hyggian hýr, Hiors þá Fiotra sneidde Blad: Þeinsgill tiáde, þorna Týr, þu hefur núna audsýnt þad.

47. Bóse seirn ad bidia góds Brande Orrum velldur Tións, Efter Sveirn á Akre Blóds, Einn af Ylhýrum Salimons.

48. Lided eggiar strax í Stad Styriar hrada fundunum, tveimur leggia traustum ad, Tirfingz Blada Lundunum.

49. Blálendingar harda Hríd, Holldum giera tveimur ad, Vider hrínga lietu Líd, Lausa skiera dreirugt Blad.

50. Menſker Kraftar máttu þar, meſtann valla ſiandaſt Her, hreiſte ſkaft-ar Hetiurnar, hrundu Líd á Feigdar Sker.

51. Þúſund heila báder brátt, Blóds á Torgum efter þad, Vargar ſeila Hollded hrátt, Heliar Borgum ſendu ad.

52. Þeingill Hrauſtur þá til Sveins, þeſſum Ordum tala vann: frægdarlauſt er ollum eins ydur ad brúka Lids fiold-ann.

53. Níding má Eg nefna þig, neyder þannig ockur hier, Eggenn blá þótt Iſe mig, Einvíg Kaude bíd Eg þier.

54. Aftur duger Önundur Ulf-ars Mále gefa Svar: Ofurhuge Al-roſkur, ertu frægſte Veralldar.

55. Alldrei fyrneſt Frægdenn þín, filger meſta Hugprýde, Einvíg gyrneſt eykur Pín, Orku Sárum þverrande.

56. Heidinn mæddur eckert er, eda ſærdur Gaurenn blár, Járnúm klæd-dur Brandinn ber, Bræde nærdur fyr-er ſtár.

57. Láte fara Milldíng mig mót Orkrum Hyriu' nid, helldur spara þreit-tann þig, þore Eg slíkann reina vid.

58. Kannskie Grídur Klóta sín, Kaudann prýde Dreira lá, ádur enn ldur æfenn mín, ydur sídur mæter þá.

59. Einvíg boded Ulfar tier, er mín hallda Lundenn trú: Enn Adstod-er þínar þier, þockum' giallda vil Eg nú.

60. Talar gillde Vopnas Ver, vidur Milldíng, hallda býd, fegrum Skyllde fyrer þier, Fyllkers villde Hygg-iann Blíd.

61. Ulfar kallar Svein til sín, sagde: Duglaus Hundur þú, hingad lalla Hels ad Pín, hirde Eg ecke Sída nú.

62. Ordenn vidur Eggiunar At-rids vara Krumme nam, fram sier ridur Fólenn þar fyrer Saxa hitte Gram.

63. Reidde harda Hiorenn Sveif, Haukanna í Vopna Klid, Ulfars Bar-da allann reif, Onundur brá honum vid.

64. Hogg ólina á Læred batt, læst ad Beine, sneida ried, Kneskelena hálfa hratt, Holldèd utann fótar med.

65. Med jarkanum misista Tá, mátte burtu falla senn, Logenn Grana lifde þá, læste sig í Blód-vollenn.

66. Undenn skorna Oddvitans, eige ad Sinne stemmest þar, Edalborna Blodeð hanns, blædde um Kinnur Fiorginar,

67. Þá Ogloggur beigde Bein, bísna stóre lítur so, Gilfe hoggur sundur Svein, sagdur fór í Hlute tvo.

68. Heidingiana Hrædslann tók helldur þvínga Vals um Bý, sáu flana Svartann Hrók, sinn Hofdingia Daudann í.

69. Allmorg Hundrud Egginm Fleins, Odda Bramle vidskilinn, þar lá sundrud Þeingill eins, Þórir gamle hriggbrotinn.

70. Styriar Varner þóttu þeim þrottnar Hialle unda Lóns, Hlýrar farner, Svifter Seim, Siklings aller Galimons.

71. Heidna vidur sagdt so skdann Frægur Önundur: Kióſed ydur Koste tvo, kallast þægur næsta Hour.

72. Ydur veried Oddum nú, æse trega kostar þad, eda sverjed Ockur Trú audmiúklega hier í Stad.

73. Sveit til lángar Fridenn fá, fóru gánga heim á Hond, Ættartánga fleigdu frá Fálka drángar, kiæteſt Ond.

74. Eyda fóru, þócknast þad, þrýtur vande Kíſſens nú, efter voru í heim Stad, alls lifande Hundrud þriú.

75. Undvargana minner mig, makada liótu Blóde þar, átu ad vana ofann í sig, upp ad Klótum Slídrarnar.

76. Fagra hvele Fridar sá fyrer rosa Styriar Hlie, liette upp Jeled Lausa þá, Lofte ofar Dampenn stie.

77. A veige ſtuttum Vagn framber, um vaxed ríka Blámans Torg, þar á fluttur Ulfar er, Önundur líka heim ad Borg.

78. Víga mæddu Værdet fá, vodum klædder Hvílunnar, Herrar græddu hermest frá, hiellduft giædder fride þar.

79. Lietu kanna vídann Val, var med Elfe Harálldur, Randver annar (tiåer Tal) Thrs á Vise Blódugur.

80. Rúmann liggur skylda stioott, skiirer Nauda Æfne þad, Tiimann þiggur Hviilda hlioott, Hliire Dauda stefner ad.

Sextánda

# R i i m a.

1. Fálkinn Oma flygur minn fram af Rvæda Tiallde, Mærdar Blóma sæker sinn, svíptur Giæda Hallde.

2. Mælsku rírum þióste þvi, þrauka spannar Streinge, hier á Mírum Aſókn í Ovinanna leinge.

3. Giálpar Anda gefur meir, gledelegre Hyggia, Eg mun standa þegar þeir þrotner Sigre liggia.

4. Giæsku aude Grimmleikinn giarn Olinann fegra, Gretters Dande mæder minn, Mimers Vinar Hegra.

5. Elldar, Vindur, Æger, Folld, Inded nita þráe, allar Rindur yfer Molld, á þad lita náe,

6. Náe dvína Nauder þær, Nægd heimleitar Grida, nær mun skína Mána Mær miked heita fridar?

7. Vinum færa vil Eg hier,] Vined Hundar Horna, þá sem kiæra man eg mier, Manndygd stunde forna.

8. Balldurs Minness Bikar þá Bragar sýne þenna, margur inner Ökrum frá, Oma Víned renna.

9. Minkar blíða Málsnilldenn, midla Nægdum Spakra, lángt er sídann Myra menn, Mærdar plægdu Akra.

10. Sigtyrs blanda sídast Kier Sextán Rímann fylle, efter Vanda ydur hier, Einatt Tíma spille.

11. Festest dyra Farsælldinn Fráe og Kalla vidur, læt eg ríra Mannsaung minn med þad falla nidur.

12. Erfe Balldurs Ender Kífs, inte Branda fæger, þar Harall-dur hittest Lífs, hiermed Randver fræge.

13. Faungud láu fallenn Lík, feigdar Kransa Tióne, alldrei sáu undur slík Augun Manns á Fróne.

14. J þeim rauda adrer Val, enger hielldu Líse, fluttu ad auda Sælldar Sal, Segge úr felldu Kífe.

15. Mínka nádu Sárenn senn, Sverda mædder Orum, Lækning þádu Lista menn, leinge grædder vóru.

16. Þótte harda þraut farenn, Þydar vara Bætur, sína jarda mætur Menn Millding Sara lætur.

17. Erfe stofnad efter þad, Angurs grandar Faungum; Vín ódofnad veitt í Stad, viek ad Andar Gaungum.

18. Stefnde sídann Þeingill Þíng, Þiódenn heiter sanna, skyllde hlýda oll Odling, Innlend Sveitenn manna.

19. Þeirra Sþorum þægelig þóck- nan blída skiedur, Ulfar kioru yfer sig, Onund Fróda medur.

20. Sterkur Saxa Gramur gaf, Golners Víf Onunde, Tigner vaxa Aude af, Ungum Fífu þunde.

21. Jötuns Orda Megned margt, Millding þeinkte Hollum, Herfangs fiórda Príddann Part, Plátu skeinkte þollum.

22. Þorna Lundar þacker tiá, þreknum Fæder Ylgia, baudst Onund- ur Budlúng þá, burt um Græde filgia.

23. Týrs Gunnloga Tygge enn, traustar Kiore Filgder, þar Hertoga settu senn, Seima Vor var millder.

24. Valde marga Sikling sier, Seids ad Túne stóru, Súdavargar Sio- tiger sídann búner vóru.

25. Móens dúna málader Minds- um þarna bestu, gleiptu Húna Got- arner, Giersemarnar flestu.

26. Ægers gladda Indesslig, Asynd þeckia Prúder, Blódug Hadda beigde sig, Budlúng geck á Súder.

27. Fyllte Vindur Vodernar vogs um Dreka Mýre, geingu Hindur Geirhaddar, Giæfann liek vid Stýre.

28. Leinge drøfnum lømdust á Ligrubanda Hestar, uns fyrer Støfnum Ýtar siá India Landed besta.

29. Voder Strånga vefiast í vøkna fleinar eiga, þar af gånga pilium frý, þrifner Teinar veiga.

30. Budlúng heyrde Benjamin Borg ad sterkann gånga, Gledenn reirde, gleimde Pín, Giæter merkann Spånga.

31. Saxa Gram í Sæted hæst, sette, med Önunde, hitta nam so Herrum næst, hefia á tiedum Funde.

32. Veitslann skrautleg Herrum hiá, Hyggiu Liósed gledur, søgdu þrauter sínar þá, Sigur = Hróse medur.

33. Aller tiádu under Sól, Ulfar frægstann vera, Kappar nádu hiner Hól Heidurs nægsta bera.

34. Gramur Christinn Giefnar Líns glæstu þar á Láde, beidde Systur Benjamins; Budlúng svara náde:

35. Vilie hin dýra Dregla Rift, Dogling kiósa Láda, skal hin hýra gefast gift, Geimer Lióstra dáda.

36. Játar blída Jofre nú Jotuns Orda Linde, gladur sídann feste Frú, fágad skordast Inde.

37. Gnógt ánægenn Gledinnar giorde fagrann stidia, var þad dægenn Veitslunnar, vottar Sagann, þridia.

38. Þá var búed Brudkaups til, boded Otal Líde, fagnar Gruenn Horna Hil, hreifder nióta Prýde.

39. Eckert grætte yggiar Mær, allar Neider dvína, soddann kiætte, sáust tvær, Sóler í Heide skína.

40. Folldar skafta fegurd med, fagnade Bærenn Laxa, aller Kraftar gloddu gied, giættu ad Mæring Saxa.

41. Fiórtan daga Veitslann var, Virding leinge tefur, sídann Lagar Sunnu þar, Sikling Meinge gefur.

42. Stunder lída þócknast þad þundum Grafnings duna, Ande Gríd-ar Budlúng bad, búa drafnar Húna.

43. Freyu Tárum fágader flóda Hestar voru, hímdu á Bárum Hnár Reister, hielldu Festar stóru.

44. Báru glansed Benjamin, þar um Leider Ylgia, Giæter Lands og Gullhlads Lín giorde á Skei-der fylgia.

45. Kiærleik medur qvadde þar Kóng og Systur sína, Skipenn vedur burtu bar, Bylgiur lister sína.

46. Hægt til Súda hnigu þær, hugdu ad dýru Kvende, Hlies gied-pruda Hugur nær, Hvarma Týrum rende.

47.

47. Vinda Pitur gladde Gram, Gotna víga stidur, aller litu Africam, Akter síga nidur:

48. Uns frá Torgum Oyundur, Ulfar Randver líka, Heim ad Borg, og Haralldur hielldu um Landed ríka.

49. Herlid filgde harla frídt hvörium Klóta Ballдre, gafst Matthillde geded blídt, geingur mót Harallde.

50. Herrum fagnar Sörva Sól Svanborg líka medur, Veitslu magnar, Möens Ból, meinged ríka gledur.

51. Ulfar valde Jmers Tón, og gaf þad til líka, siálft Harallde Saxa Frón, settest ad Africa.

52. Packar Filgder frægdar Mañs, frañ á Knara veige, sídann skilder, Skipa Krans skorte Harallд eige.

53. Siglde Nordur Saxlands til, Sveima Gnoder Húna, Jotun þorde bistum Bil, blaka Voder núna.

54. Setst ad' Rike Þýsku þar, þegna eigenn Beidslu, frægra ilke fagnadar Fólke þeigenn Veitslu.

55. Ødling fridann átte Són, eftdur giallde raudu, eignadest sidann Atrids Qvon, ad Harallde daudum.

56. Sá hiet Blaus Sóma Ør, seige Fødurs Jafna, brá Stálgráum heitta Hior Balldur Roduls Hafna.

57. Ulfar Gramur Africæ Itum Mundenn veiter, átte framur Arf þeige Arctemund ad Heite.

58. Veittest Abled, var brádgior Víſers Burenn Merke, Odda Table æste Hior, auknefndur hinn Sterke.

59. Ulfar, Randver, Ønundur, efter þetta tiáer, sáu á Lande, so fellur, sidann frettast náer.

60. Asiæ Rike Ammons dauds Artaxerxes tekur, Ræser slike Rádum Auds Roda-Serke skiekur.

61. Ammons Frænde seigest sá, sverde tamur rauda, Ulfars rænde Eigum þá, efter Gram hinn dauda.

62. Ædstur Hare Africæ og hañs Hlýrar báder, Súda mare settu á Hlie, Sveit órira þáde.

63. Blika Skyllder Bordenn ný blakade Drofnenn kienda, fram̃ ad Hillde Asiam í, inn á Hofnum lenda.

64. Heriudu vída Haudred á, hiner lægder, runnu, Borger fridar þióna þá, þeim er frægder unnu.

65. Mannsins Alldur valla vinst, Vísers skrifa Hreiste, Geyrs vid Hialldur, mun þó minst medann lifa treiste.

66. Ofthapde Ogna Her Artaxerxes hafde, mót sig þande Vigra ver, vid ei Sterkur tafde.

67. Sínum itte Seggia Krans Sóknar Hialldre digur, Ottenn flýtte Fótum hanns, feck þó alldrei Sigur.

68. Önundur sem Abled bar Asiæ stýra Borgum, Ödlingur þar efter var Als hiá Mýra Torgum.

69. Ulfar kvedia Önund má, aftur fræger hallda, Fofners Bedin þundar þá, hvert um Ægenn kallda.

70. Byriar Hestum Bláland í, bægde Randvers Hyggia, Ræser setst ad Ríke því, riede ei Granded styggia.

71. Ulfar Monnum Affricæ ellemódur stýrde, fylldur sonnum Fagnade finst hanns Hródur skýrde.

72. Fimtíu átte Fleina þíng, feck þó jafnann Sigur, miked mátte sá Sikling, sadde Hrafna Vigur.

73. Köngar Persa Ulfar á alldrei heria þordu, edur þessa alla þriá, Ödlings veria Skordur.

74. Hvor nam ødrum fylgia fús, frettest Grand Rannanna, Sára Nodrum Heila Hús hinggu Fiandmannanna.

75. Ødling gódur Aeenn siest 80 ríkte, ellemódur andádest, ángur ad níu mýkte.

76. Rett=trúadur gódann Gud, gofgade Hyrder dygda, Látenn gladur fær sognud fremstann Dyrdar Bygda.

77. Ødling dáenn Africa alla vega sorgar, Asiæ Blálands eins líka Eplen̄ trega Borgar.

78. Arctemund sem Aster jók, Ellde Lødurs rauda, Yggiar Sprunded ad siér tók, efter Fødurs dauda.

79. Honum líktest Sára Sió, Sverde kaus hinn gilde, Ønundur sýktest, eirnenn dó, Arfalaus vidskilde.

80. Edle sonnu elskadur, Ødling dygda Fríde, hann vard Monnum Harmdaudur, Heimsens Bygdar Prýde.

81. Innann Stundar Arctemund, Ønunds þáde Løndenn, geingu undann Þorna þund, þar sem gliáde Røndenn.

82. Ulfars Saga og Önundar, endast, sannar letur, Efne laga Odds fundar, ecke kann Eg betur.

83. Viner fære Liod i Lag, lista Ordum fiinu; hiner lære ad lauta Brag liggia i Skordum siinum.

84. Skalldenn bæte Brage hier, best ordriiku leinge, Efterlæte mætte mier, mest ad sliiku Geinge.

85. Albloomgvada Akra Twn yfer skeidad leite, Sorgenn, skadast Siaffar Dwn, syner greidast heite.

86. Miinkar Saftted Orda Odds, ecke Snialler dilie, Fødur Nafn af Bade Bloods, bid Eg aller skilie.

87. Finst vodulel fræ-dalag fiærre greinum skii-ru,

ru, Eg hefe þuled Ulfars Brag at Saudreinum diiru.

88. Herians Fidur hviilist minn, Hroodrar-Kyne flestu, fadme ydur Farsælldiñ, Frændur og Viner bestu!

89. Frædum Qvæda Hæda hier hagnar

nar þagna Stiankar Rædu Æda Mæda mier, magnast fagna Þankar.



